Stutt agrip ur

# LACHANOLOGIA
eda
# Mat-urta-Bok,

fyrrum
Vice-Løgmannsins
## Hr. Eggerts Olafs Sonar
um
## Gard-Yrkiu a Islandi,

Fra pvi sædit fyrst fer i jordina, til pess alldinit verdr a bord borit.

Par segir og um allskonar hulldu-groda, krydd-urtir, og flesta villi-vexti her innlenda, hversu brukaz kunni, so sem eru; ber, rætur, sveppar, fiallagraus, og annat fleira.

Af peim excerptis sem author sialfr leifdi eptir sig, i eitt safnat
af
Sira Birni Halldors syni,
Profasti i Bardastr. syslu.




Enn sidan at hanns og Vice-Løgmannsinns Magnusar Olafs sonar tilhlutan prentat i Kaupmanna-hofn.

Hia August Friderich Stein 1774.



# Godfusum Lesara.

Sa sem rett þeckir gard- og akur-yrkiunnar nytsemi, skilur giörst hversu margra og mikilla hlunnenda vort fatæka føsturland fer a mis, er þat hverki veit ne vill færa ser hana i hag. Nockrir meina, at fiskiaflin, og fiar-ræktin til sveita, se eins-kostar þat tvent sem natturan gefit og ætlat hefir oss til uppheldis; og þat er satt, at þetta hvert tveggia hefir i langar tidir morgum forsialum innbyggendum þessa lands vel dugad med Guds blessan og godri medferd: en vissu þar um fram vorir landar ad at yrkia jordinna og hagnyta ser hennar ymislegan groda, skyldi þat



einnig gefa oss nytt efni og orsok at prisa Skaparans gædsku og fyrirhyggiu, sem so margvisliga elur enn fyrir oss, og eigi sidur med landsins friovsemi og avexti, enn hinu hverutveggia sem adur var talid, stydur vorar navdsyniar og biargrædi; þo so fremi ver retteliga berum oss eptir slikum hlutum, og sialfir förum þeirra a leit: þvi Gud, sem þeir gomlu sagt hafa, selur gafur sinar vid mannsins sveita og fyrirhöfn; enn þegar þetta dagligrar atvinnu andvirdi brestur a vora sidu, manu þa kyn ad ver þorfnustum margra þeirra gæda, hverra ver siam adrar þiodir ad bodi Guds og natturunnar leita og neyta i sveita sins andlitis. Eg meina þetta serilagi um yrkiu jardarinnar og nyting hennar avaxta, sem ver annad hvert sialfkrafa höfum, eda hafa kynnum med hægu omaki. Er ad visu mikid til þess ad vita, hversu ver erum oslyngir og fafrodir i sliku efni, sem nabuar vorir, Danir Sviar og Nordmenn, gefa sig alla vid, og þar a leggia ödru framar mest kapp og astundan, med þvi ravnin er þeim olygnust, hve rikugliga þeirra yrktu akrar og alldin-gardar lavna þat omak sem fyrir þeim er haft. Hvad i þessu og ödru mælir oss

nockura



nockura bot, og af sakar vora fakænsku, er, ef nockud ma nefna, skortur a godre leidarvisan og uppfrædingu, sem eigi adeins skylldi setia oss fyrir sionir enna framandi atferd vid gard- og akur-yrkiuna, asamt þeim gagns munum þeir af henni hafa, helldur og einnin, sem mest aridur, heimfæra þat hvert-tveggia, med godri greind, uppa vort fodurland, og eptir þess asig-komulagi kenna landsins bornum slikra hluta retta medhøndlan. Þetta sierhvad, einkum þat gard-yrkiunni, eda allskonar jardar alldinis rækt og brukan vidvikur, finna vorir lands-menn, at eg meina, til nockurrar hlitar synt og sagt i þessari Mat-urta-bok, er her a landi kallaz ma su fyrsta, at þvi leiti hun samin er af eiginni reynslu, og marg breyttri vidleitni, er Vice-Logmadrinn salugi, smidur bæklingsins, avalt studdiz vid, og þar a bygdi flest alt sem her er sagt; þvi hvad stoda oss þær forsagnir, sem ver hofum vidliks efnis, er hverki hlyda almennings astandi, ne fella sig her vid lopsins og landsins natturu. Hina stærre Lachanologiam reit Vice-Logmadrinn arid 1763 i Savdlavks dal a Vest-fiordum, hvar hann var til vistar med magi sinum Profasti sira Birni,

 og



og þvi a um þennan stad ad skiliaz i bokinni ordid **her**, ef so hagar meiningunni, at þar var þa hans heimili. Ur greindri bok, sem nu er med authore horfin, valldi hann sialfur handa vinum sinum og kunningium nockur excerpta eda urtøkur; so sem frekliga svaradi fiorda hlutanum, hvad Profasturin hefir sidan skipuliga saman tekid og fært i þetta agrip; þo med þeirri varud og athygli, at hvervetna helldiz obrialad Authoris snotra ordfæri og rit-reglur, sem hverttveggia vera mætti rettar-snura, þeim sem skrifa vilia hreint og obreytt modur mal. Enn þo er þetta litis vert hia bokarinnar fyr talldri nytsemi, sem allir, þeir hennar leidsøgn og formæli fylgia, sanna skulu med gledi og anægiu, þegar þeir fyrir Guds fulltingi sia ærinn avøxt sinnar idnar, og þeim verdur sion sogu rikri.



Fior=



# Fiørgynar Mal.

Ari sat á steini
og um litadiz
mátti Fiórgynar
mál = róm þeckia.
Mælti þat hin alldna
miög var ofs lagit
tíss og tíma
ef telia myndag.

Getin var eg fordum
góðu heilli
varat unads vant
úngum svanna.
Gipt var eg þegar
Gymi þessum
var barn = afli
báðum laginn.

Fæddag



3. Fæddag og ſæddag
fór at ſkópum
ſyni og dætor
ſo geck lengi.
Ol eg á brióſti
allann þorra
barna minna,
búſæl þóttumz.

4. Ox þá Sveinum
ærin kiarkr,
drengir vóru hravſtir,
enn dætor vænar.
Qvicknadi þadan
kynſæld mikil
þat voru halir heima
og höldar i búum.

5. Hyggilega redum
enn hamingia dugdi
ſo lidu alldir
ſex eda lengr.
Þó minn afſpríngr
æxladiz framar
drygdiz mer líka
bravd med barni.

Navt



6 Navt og ſaudi,
ſvín og geitor,
hæns og gæſir
hafdag á búi.
Allt ſlavt land
af ali-kyndum
var til mann-elldis
margt at hyta.

7 Akrar vóru friovir
og alldin-gardar
gladdiz ardr
i grænum ſverdi.
Mættuz folldir
mund og greſſi
varat uhegndr
völlr ne merſki.

8 Heyrdiz kurr alldrei
ne kotúnga gnydr
þótt miólva ſöng
mangi flytti.
Tóko ófundar nafn
af innan-lands koſtum
mundi þá farſællegt
mór-landi at heita.



Zybyla prúdir
hundrad gesta
laududu opt kátir
til kynnis vistar.
Sæiz ostr og skyr
uppá skutli.
Zetu óvinar
hnóggvann fagnat. (a)

Ecki var bóndi minn
áfryu verdr
er einhleypingar
atfóng sóttu
Gat hann mer faustu-mat (b)
fengit nógann
þegar biskupar
baunnudu slátr.

Fluttu mer at búi
far-men úngir
mault og hunáng,
og húsa vidu.
Vopn og klædi
klárar veigar,
málm allskonar
mer at þórfum.

Heiman

(a) Saga Biarnar Hitdæla kappa.
(b) ɔ: fiskæti.



Heiman úr búi
fyri hnossir slikar
galt eg vadmál
og vararfelldi.
Enn bóndi minn
matti siálfr
skreid sína og raf
vid skíra silfr.

Þúngt er af at segia
þravt i búi
nú ber til saugu
nockud hvórrar.
Komu úr land-sudri
knerir margir
er Hansa stadir
hingat giördu.

Gáfu þeir vid fiski
glingr mikit
og vid skreid nógri
skartsöm klædi.
Enn vadmál mín
og varar felldi
allar búnytiar
einkis mauttu.



Gördnz æsku-menn
eigin-giarnir
er hrannar söl
vid hafnir litu.
Qvadu bænda lif
bágt til fengiar
afla litid
vid ærinn lúa.

Þóckti þeim hvört dægr
sér draga myndi
ard fevænni
enn vika bændum.
Slycktuz þeir til vera
fenginn felldu
vid þvi sem hinir
höfdu at bióda.

Liggia sídan ósánar
ekrur minar
fyllir megin lands
mosa þysi.
Þykiz gylldr sá
er getr fódrad
hálfa beliu
á hundrads landi.

Gat



Gat eg enn mínum-
gripum halldid
þó lands höfdingiar
lendum nædi.
Dróz þá fe mitt
til fárra garda
geck múga = manns
miög saman hagr.

Skriftudu mer
sköp enn framar
ginnaz letu þá
gamlir bændr.
Hvör var sót = raftr
á sæ dregiun
varat mer i siálfrædi
vid at sporna.

Happa = rád meintu
hnefat vænsta
þótt hyskid felli
húngr = morda.
Börn og konor
bú og heima
forystulaus
fyriletu.



Heyrdiz qvðrtun
i koti hveriu
ef nockurn brast
atföng miðlva.
Felld var atferd
fyrndar starfa
brugdit allri lanz
orku og gengi.

Spurdi Fridrekr
fylkir Dana
þróttleysi mitt
og þrifa brygdi
Hana qvad eg skylldi
háttum breyta
hallda mer til gilldis
sem gördag fordum.

Heyrdi hann at lands-megin
lægi onotid,
eyddir skógar
engi trodin.
Øll urta-vðl
óneyt þæcki
nema þat frió-meti
er farmenn selldi.

Mörg



Mörg hefi eg merki
milldings gódleika
tel eg eitt : börn mín
bad hann umskygnaz.,
Hvär efniliga
at ellistod
módur örvasa
mögu gæti.

Fanz þá: Egert
þess eg æ minniz
og Biarni annar
borinn Páli.
Farnir listum
lituz hæfir
til framqvæmdar
fylkis vilia.

Þid skulut sendir
sagdi Gramr
ærir (c) tueir
um haf nordr.
Kannid þar og vottid
hvör kosta not
til þarfar sie
og þrisum styri.

 Nú

(c) erends-rekar.



Nú man eg þess geta
sem nærst er skapi
því mer Eggerts hvörf
yndi banna.
Liggia spor hanns
um lands herud
blessud og blómgud
hiá bestu mönnum.

Þóckti þeim skáld mitt
skörulegr
vinsæll hann gördiz
og valin = kunnr.
Samdi hann æfa
sundrgiördir,
lavsúng alla
ser leida talldi.

Hygginn lagdi
til hvörra mála
þat er best mátti
bótum vallda.
Madr einardr
mundángs gætti
vitni þeir sem vita
vil eg þá fregna.

Hvör



Hvőr leit Eggert
einu ſinni,
og ei ſæi marga
afbragds koſti?
Hvőr mátti Eggert
hitta at máli,
og ei kæmi fródari
af fundi þeirra?

Hvőr viſſi til Eggerts
hátta nockud
þat mentar ei
merke bæri?
Hvőr var landi
liſt at gagni
ſem Eggerti væri
med őllu dulin?

Borid hefi eg lenge
beiſkann trega
of ſonar ſkard
ſollid harmi.
Máttat eg hanns nióta
nockud lengr,
máttat eg hanns helgar
molldir geyma.



Hanns skal eg minning
heidri skryda
sem ólga sióar
man alldre kefia.
Tel eg meira verdan
vegs og blóma
enn skóp villdu
at skiptiz hónum.

So var ángr mitt
apalldi bavga
sárt at vita
sem siálfs væri.
Þvi sem modr-hag
mein á lagdi
vardi hann sér
til vidrettingar.

Her er eitt af óllum
idnar merke
sem bók-vís madr
bændum leifdi.
Her eru forsagnir
happa rikar
land-búa fólki
lífvænt efni.

Kennir



Kennir hann hvar helgar
Herrans gáfur
oss fákunnar
i óræktt liggia.
Kennir hann hvi megi
miklu bætaz
fátækis manns
forlags=eyrir.

Kennir hann her fyrstr
und kullda belti
hvörsu árna skal
alldin=gróda.
Hans i fyrnsku
fóstrudu einir
menn skuggalausir (d)
und Midgardi.

Kennir hann at akrar
og urta gerdi
til lífs biargar
lid oss veiti.
Kennir hann at hriostur
og hardir klettar
geta at nockru
giört oss sæla.

Kennir

(d) Ascii, þeir sem búa i heitustu löndum, og gengr sól yfir hvirfil þeim.



Kennir hann þat heilsu
hagar vorri.
og lífs meinum
likn of finnr
Hvðrum slíim-beiskia
slæviz vistum
og skyrbiúgr
skerpu missi.

Vera má bæklingi
vant se nockurs
er myndi þyckia
merkis frædi.
Hvðrsu osnotrir
avdnu sasna
prísaz latir
poku-menn biargaz ?

Hvernin heilsa og fiðr
halldiz leingi
hófs og hreinferdis
húska vðnum.
Hvi fædaz megi
af fullum diski
þott argr skirriz
idn og sveita.

Þat



Þat vissit hinn fródi
þiódans vinr
kendi hvórki
ne kunni at sýna.
Skiri pad er skrá
hvad skilia sidst,
velia oss þav rád
er vinnaz alldrei.

Nú á eg skap-bót
nockra i vonum
ef bændr rækia
búnads frædi.
Þá mun hagr minn
hefiaz af nyu,
endr fædaz alldir
æsku minnar.

Mun eg þá selia
vid sió-fángi
og kavp eyri þeim
sem kann mer lika.
Bæar vinnu
og búss afleifar
ölldunga fiöld
og ali-savdi.

Oskar



Oſkar eg búmönnum
árs og gengis!
óſkir bæklings
þeir eigniz hinſtar.
Ali þeir oſs margan
Eggerts líka,
arfa látins
ídgiölld fylli.

Þat munu ókomnar
alldir ſkynia,
menn óbornir
munu þvi hróſa.
At Eggert var
medan uppi ſat.
ódals jardar
áſt og prydi.

Þagnadi Siörgyn
og þóckti af brá
helldr enn ecki
hardr tregi.
Nú þócktiz ari
nóg hafa ſetid
ſparn vid il-þorni
ſpratt úr ſátri.



Intakit

## Innihald Bæklingsins.



19. Kap.



Mat-



# Mat=urta = Bokarinnar.

## Fyrste Kapitule.

### §. 1: Um náufn Mat = urta.

Allar Mat = urtir, enn helst þær sem sád er til, kallaz kál, ávextir og alldin á Norrænu, Lachanum af Grickium, enn Olus af Rúmverium.

### §. 2. Um Mat = urta navtn þeirra ellztu þióda.

Þá Konúngurinn vilde, at Islendingar færu at brúka Mat = urtir, þá syndiz þeim mesta óqvæde, at þeir skylldu eta gras: Samt átu vorir fyrstu Forelldrar urtir jardarinnar, og þat var Guds vilie bæde fyrir og eptir fallid. (Gen. 1, 29. Kap. 3, 8. 8, 22.) Lánglífe manna fyri flódid, meina nockrir lærdir menn hafe komid af Mat = urta



navtn.

navtn. Allar enar ellstu þiódir átu þær. Ægyptar, Syrar, Indar, og serilage Gymnosophistæ, sídan Grickir og allra mest Rumveriar, þeir átu kál i 600 ár, bæde sem mat og lækning vid aullum sóttum. Eins kom kálid híngat á Nordurlönd, hvad aull vor fornu lög votta.

## §. 3. At Jardar-ávextir sieu hollir Islendingum.

Kála og flestra mat-urta brukan, er oss serilage heilnæm, þar vier erum so miög hneigdir til vondra Skyrbiúgs sótta, hafande bædi skerpu og óhreininde i blódinu, sem vid þetta matar æde lagfæraz kynne.

## §. 4. Um Kálsins tömdu náttúru.

Allt kálsins edle er af Skaparans til ætlan Mann-kyninu avdsveipt og hlydid. Eitt fræ-korn, stórt sem prións knappur, er tekíd úti i jurtagarde, þurkad og geymt inni i bæ óskemt i nockur ár: eptir þad er þvi kastad út i upp-pælda molld, olldúngis gras-lavsa, þar vex upp af urt innan nockra daga. Vier kippum henni upp med rótum, og hún lætr flytia sig, i annad eyde pláts, hvar hún ser, so veik sem hún var, eptir hálfs-mánadar qvilla, ódum at vaxa. Hún þiggr af oss mat og dryck þess á millum, og sprettr so miög, at hun lokſins ecke-sær valdid stærd sinne, og þó ennsídúr stadid i móti vindinum. Vier gefum henne þá staf til at stydiaz vid. At lyktum þroskaz hin litla prións-huapps stærd so úr máta, at hún kann at sedia nockra menn i mál; já hún lætr smám saman skera blódin af ser oss til fædslu, álíkt og þá vier tökum ull af saudum vorum til klædnadar.

Þó

Þó vetrinn komi, lifir hún úti i froste og fiúke, og eptir þat hún hefir þolad fyrsta vetrar kulda, þá gefr hán oss þá hina bestu og hollustu fædu. Ef vier veitum henne ei herberge, þá leggr hún sig til svefns, þegar skamm-degid kemr, og hvíliz undir miklum sniófvum, þar til hún vaknar og upprís at vore komanda. Annars þiggr hún hiá oss vetrar vist, lætur oss taka sig upp med rótum í annad sinn, og um sig búa inni i bæ, hvar hún sitr uppi græn og friof allann vetrinn, og þienar oss jafnad-arlega til lífs-uppelldis. Vorid eptir lídr hún oss at taka sig upp med rótum i þridia sinn, bera sig út, og setia sig nidr i graslavsre jörd. Hún vex her upp enn á nya leik, til þess hún tímgaz og verdr ólett at sinu fóstre, hún fædir þat, og lætr oss sem liófs-mædur vid þvi taka, geyma þat og fóstra, fiölgar sídan med þvi sínum líkum.

## §. 5. Um Laga-vernd aldingarda.

Girding skal hlada kríngum mat-urtir, ecke einasta at veria bú-smala, heldr at nióta lagauna verndar, skal hafa þar á hlid, grindar hurd og loku. Enginn má i þann gard ganga, hagga þar nockru, edr skemma at saklavsu, og ef hann stelr nockru-burt, þá verdr hann þiófr fyrer. Aull Nordurlanda lög forn og ny stadfesta þat, og áqveda sektir. Til dæmis siá dönsku lög aull: hvör-tveggia Valdemars Konúngs Sigursæla, ɔ: Jotlands og Siálands lög; Lögbók Eireks Konúngs, item hin nyrre Christiani 4ti og Christiani 5ti, öll hin Svensku, og flest hin Norsku. Um Islendsk lög vitum vier siálfir, sosem bádar Grágásir, en helst Járnsídu og Jónsbók. Allt eins hafa þar um halldid vorra tída Lögmenn. (Siá

Myn L. projectid,) og eg hygg einginn mynde so ránglátr edur heimskr dómare sem ei legde vid sektir, ef kál-garde eda gard-aldine være her mis-þirmt, fyrer einhvörium-bónda, hvört sem verkid kæme af þiófnadar náttúru, illgirne edr heimsku-legre rælne.

# Annar Kapitule.

Her er nú þörf lángordastr at vera, þvíad efnid er grundvöllr allslags mat-urta ræktar, og aldingarda nytseme, ja og so tún-ræktar, og korn-akra, enn serilage má eptir þess forskriftum rækta allar kál-tegundir, næpur, rofur rc.

## §. 6. Um Gard-verkfære.

Gardverkfære eru: páll, reka, miór spade, klára qvísl, og hrífa med jarn-tindum, anll skulu þaug vera travst, lagliga smídud, lett og þægeleg medferdar.

## §. 7. Um Grundvöllin og um Jördina.

Til Kál-gards stædis skal útveliaz sliett-lende, og helst lítill hallande, enn ei hædir ne lægdir, eda lág-lende. Jard-vegr se hvörke miög þurr ne votr, helldr vid deigr. Jardar-kyn eru margvísleg. Mat-jörd er sú sem grasid vex i, i tillite til lands-lagsins, þá er hún heit; jardvegr þurr og lítill, hvar þátt er; enn dypre, kaldr og votr á laglende.

a) Svaurt gras-jörd miúk og vid seig er best. J túne er hún tídt of feit, einkanliga krings um hús og bæ, fiós og forir, og skyllde þá

sande

sande og ósku vid hana blanda; annars vex alld=inid i þessare ofræktar jörd strax i nióla og blómstur, sem optsinnis bera tvófallt blóm, og ymislega afskræmd verda. Best er sú svarta molld, sem úte sinz i havgum, þeim er alldrei hafa ræktadir verid.

b) Avr eda Leir=jörd i flaugum, innan edr utan túns, er hiunar lökustu tegundar, bæde súr og barkande, þarf sú jörd mikinn áburd, og hreinsan med þvi móti at betri jörd fáiz annarstadar frá med ástundan, at bæta jard=veginn.

c) Veggia=molld er optast þur og lett, ise hnavsin fyrst úr feitre stúngu, er sú feite þar enn, sú jörd er góð myke blandin, at fæda jardar=ávexte.

d) Ravda=jörd er vída her á landi, hún er svipud þeirre sem í leir=flaugum er med avrnum, og þarf hún gódann vel jafnadan áburd, ef dúga skal, þvi hún er maugur, súr og barkande.

e) Mór, eda sú rett kallada leir=jörd, er vída hier á lande, enn travdla jard=lag þar af, helldur her og hvar i böckum. Hinn feitare mór kallaz bras = mór, svid þennan vorn mó er frekan súr at óttaz.

f) Sandr er talinn medal sád=jardar kynia, hann er þrenn=slags. Vikur=sandr eda rif, hefr mist alla fitu og elements varma, þó vex i hönum mel=urtinn eda mel=gresit og fleire jurtir. Hann er magrastr allra sand=kynia, med nægre mat=jörd má hann hafa, þegar hann hefr druckid jardar keim úr regninn. Hinn hvíte skeliasandr er miklu

betre til kál=garda víd=blands, drífr hann ávexte til mikils þroska i fyrstunne, enn tæmir þar hiá jördina, nema meire áburd fáe innan skamms, þvi skeliar hafa kalk edle. Kál hefir her i hónum vaxid eitt ár, þegar feit mat=jörd blandadiz vid hann til helminga. Steinsandr heitir eiginlega sandr, optast döckleitr, af smám steinmolum. Med þeirri svartu jörd, sem vid hann er af náttúrunne saman=hrærd, so at hún hefir lands=megin, verdr hann rett gódr til alldin=garda. Fiöru sande er saklavsast at blanda vid all=slags jörd, eptir kríngum stæd=um. Mo=bergs sandr sinz ei óvida, hann er litt til garda nytande.

g) Aska er ein mat=urta jörd. I vidar= og torf=ausku jörd, med litlum áburde, vex vel um hrío all slags kálgrese, eins næpur og rófur. Aull aska skal fyrst liggia ute ár og dag, og rigna, so at sliófgiz hennar Salt=skerpa, fyrr enn hún se til garda tekin. Hentug er aska, hvar grund gardsins er megn, seig, súr edr ofmikid raka=saum. Þat bætir hennar gæde her á lande, at hún er fyllt af allskonar hlutum úr dyra=rikinu, horne, hnútum, háre, fisk=beinum, hvad allt er vel fallit til áburd=ar. Mold þarf vid ausku blanda annad ár, enn tediez hid þridia, og sídan árlega eptir þörfum.

## §. 8. Um af=staudu gardsins.

Þetta var nú sagt um jard=lag kálgards=stædis, at afstödunne hlytr urta=gards madr at gæta, nefnelega, at gardrinn horfe vid sól og sumar=hita, enn se í hlie fyre nordan kuldum og land=nyrdingum, annad hvört i húsa=skióle, ellegar sie hár veggr hladinn á þá sídunna, med breidum stafne. Af þeim saumu rökfemdum skal þat hal=

lende

lende gard-stædesins, er nylega nefndt var, liggia i móte sudre, enn eingvannveginn hallaz til nordurs.

## §. 9. Um Siálfa girdingína.

Gard-hledslan á at vera so gild og há, at verie búsmala, helst navtum og hestum, enn savdsie verdur at vakta so þat kome þar alldrei nærre. Girding má ei byggiaz af grióte einu saman, þvi þá blæs hún i gegn og skylir sidur. Sá veggr sem snyr i móte sudre, ætte lægstr at vera, so ei bære þar ofmiög skugga á aldinid.

## §. 10. Um Gardmolldar undir-búning.

Havstid fyrir á gardstædid upp at stínga, helst gras-rótina, og hnavsana sundr beria, at matjördin (sem best er) losiz úr sverdinum; ad þvi giordu skal þángat bera nockra mykiu-kapla, og láta obreidda liggia til vors. Sen lavsir steinar i gardinum, skal þá tína i burt, smáa og stóra, utan ef at nockrir eru jardfástir, þeir megu kyrrir standa, þvi bæde hafa þeir kríngum sig besta jörd, og gefa i þurkum molldinne raka, skyla jurtum, og draga sefa til sín frá sólinne.

# ridie Kapitule.

## §. 11. Um aburda kyn.

Hier er þörf at ræda skyrt um áburdinn, þviat þar rídr aullu land-búinu Stórlega á, at bændr kunne hann vel i sundr at greina, og haglega med hann at fara, bæde til kál-garda, korn-akra, túna og engia, þvíat brúkunin verdr allstadar miög

lík, nema hvad i kríngum-stædunum afbregda kann, og skal eptir voru lands-lage vid þat koma.

Aull smala mykia er best til áburdar, eptir þat legid hefir og gengid tveggia eda þriggia ára tíma, enn af þvi at mykiunnar gæde fara miög eptir hennar medferd, frá þvi hún fra smalanum kemr, og til þess hún takaz á til áburdar, þá er atgætnis verdt, hvar og hvörnin mykian er samanborin: at hvörslags tad sie serilage, þarf her ecke at áminna, þviat savdhús eru vída fióse fiarlæg, og hest-hús líka út af.

Til tad-havga skal lægd velia, so vætunne þangat halle, þó i máta, enn eingvann veginn at hún gete frá havg-stæde fallid, þvi þá fer med vatninu kraptur mykiunnar, so hún fúnar ei, enn án þess, at rotna og briótaz, verdr hún alldrei gódr áburdr. Þarnæst skal havgrinn nockud i hlie standa, eda tyrfaz i móte sudre, at sólin ei allann dag á hann skyne, ellegar um hádegis eyktina, víd þad þornar hann og hindraz gángrinn. Nú þarf önd-verdlega lúsin at setia her eptir, ellegar havg-stædid til at búa, og hlada þett og trútt i kríng, so at vatne halldе. Her hiá er betra, at veggrinn halliz nockut þangat frá fiósinu, og dreifa þar fyrst nidr mykiunne, reka pening yfir þá vatnad er, vid þat kremz mykian, og bryþz helldr á eptir, þá búid er at moka henne ofan i havg-stædid, enn ny mykia kemr þá til at trodaz i hinnar stad. Gott er at ónytt hey trodiz saman vid mykiunna, þvi þad bæde drygir hana, og eykr gerid, nær þat fúnar. Sama er um mod at segia; nema menn hallde saman þvi nya og ómyglada, til at bera á flög i túne edr enginn, so at gras vaxe upp af fræum þeim i eru modinu. Þat

eykr-

eykt áburd, at bera molld inni Sauda kvíar, og láta tródaz saman vid tadid, er þat gott, eptir Páls Júls ráde, i bækling þeim, sem hann kallar Gódann Bonda. Einnig fá menn áburd meire, ef kýr liggia inne i byrgium á sumrum, enn þá þarf tilvalinn dyggvann navta-mann. Med mosa, torfe eda hvavsa laugum innan um havgin, skógar lavfe, ꝛc. má og dryggia mykiuna, hvar annars áburdrinn er lítill. Ei má ofmikid af annarlegu vatne i havg-stædid renna, þvi vid þat hiudraz gangr mykiunnar, og mest er undir þvi komid, at stadrinn sie haganlegr.

Savd-atad er allra tada best og kröptugast, þvi þat hefir bæde fitu og mykinde, enn þar hiá nóganu, þó tempradann hita. Allra best á þat vid, hvar lands-lagid er i deigara lage, og jördin ei ofræktud undir; þat er avk þess arfa-lítid.

Navta-myke er nærst savda-tade best, fitu og hita minne, hefir i ser gód mykinde, og á vel vid þurra túnjörd, er undir er ræktud i medal lage. Þat er at henne til garda, at hún hefir i ser mikid af ómeltum arfa fræum, er tímgaz allt ofmiög, og hindra aldinis vöxtinn, dragande vessann frá þvi. Af þvi vilia sumir helldr savd-atad til áburdar, og er vel, hvar þat á vid jard-lagid, eda vextina, so sem einkum næpur og rófur. At eydeleggia arfann kríngum hús og hey-garda, ádr enn so er vaxinn at fræ bere, med þvi at slá hann af, bera i hrúgur og brenna, þat er besta rád, eins at ysa sídan jörd-ina, og sá hey-fræe þar i stadinn, so þiettiz og bindiz med gras-rótum.

Hrossa-tad útaf fyre sig siálft, er þat óhent-ugasta til mat-urta, vegna sins ofur hita, sem meire

er enn i savda-tade: þó, se gard-stædid rakt og kalt, þá má þat þiena sem best, ef þat er mengad vid kúa mykiu. Allra hentugast er þat til myke beckiar, um hvórn sídar mun rædt verda.

Dufna- og hænsa-Drit er miög heitr áburdr, þienar vel kalldre og rakre jörd, ef legid hefir úte ár og dag, þá er þat brúkande punt á gardreite.

Manna preck hafa nockrir nytt á mat-urta reite og meint bestann áburd vera; enn fyrir utan þat at hann er bæde vidbiódslegr, og ecke hreinlegr medferdar, þá er hann og so ofallin þar til i siálfum ser, af þvi at hann brennir miög, og á best vid eitthvórt vott og kalt tún-pette, sem være graslítid. Sialdnar brúkaz hann þar til i audrum laundum, helldr optast til at giöra saltpeturnámur. Um alla mykiu er þat at skilia, at hún á at vera gaumúl og vel brotin, ádr tekin sie til sád-garda, en þat nya tadid er ei ávaxtasamt.

## §. 12. Aunnur aburda kyn.

Margir fleire hlutir eru brúkadir til áburdar, á flesta alla ræktande jörd, og á jurta-garda þeir saumu, skal nú geta um þá i stuttu mále, sem her á lande fáz.

Hlad-bleyta vel elt ádr undir hesta edr annars penings fótum; á tún-skækla og engiar má hana bera, eda hvar sandr hefir yfir hönd, til at festa hann nockud, og bæta sídan med godre mykiu: þesse áburdr er endingar slæmr, og ecke uppá hann teliande nema eitt ár.

Fotar-

Forar-bleyta er miklu betre, þó med varúd brúkande, miög hitsug og sterk, vill hún þurra og varma jörd brenna, og er þvi vid hina hentugre, til kullda temprunar.

Fuá-myrar-bleyta, sem legid hefir i brúgu heillt ár, ádr á er borrin. Þessar þriár tegundir eru til gras-vaxtar betri enn garda, nema hvar ei er annars góda jörd at fá.

## §. 13. En verda þesse jarda-kyn áborin.

Mó-torfs bleyta vel trodin og myke blandin, hefir i ser gódaun áburd: Reynslan vottar, at hún ein saman gefe feitt og gott gras, nær þuut er áborin, vid sand-tegundir á hún vel, festir hún þær og kann til garda nytaz. Um torf-laug i mykiu-havgum var ádr getid, þavg fúna þar sundr, samlagaz tadinu, og verda gódr áburdr.

Um mó edr leir-mösa-jord hefir fyre skömmu talad verid (§. 7. c) og varad vid þær tegundir i gördum at hafa. Mergill er einkum alreyndr hinn besti áburdr, helst korn-akra, hann er blaudadr mór vid kalk-jörd, sydr i skil-vatne, og hleypr i giall eda gler i elldinum.

Sidfar leirinn her, bæde sá svarte, sem i vogum og álum finz, og at miklu leite er úr vaxtar rikinu kyniadr, gefr gódaun áburd gras-jördum, og eins hinn blá-leite þyckve fióar leirinn, enn hvörugann þessara veit eg til garda hafa brúkadann verid.

Vidar



Vidar-saga er utan-lands safnad, og brúkad til at giöra miúka og myllda jörd, ef hún annars ósúr er, því sagid er af maurgum halldid at súr giöre. Sama er og reynt um súna hefil-spæpe at gódir sie, einkum ef í myke ná at rotna.

Þáng og þare, sem legid hefir i Lygnum Siöar vogum og súnad þar, optast samanhrært vid hinn svarta leir, þat hefir reynz gódr áburdr lágum órætar túnum, og lika oblandadr þare færdr uppá land, i vætu lágar, og látinn þar nidr súna, gefur sídan áborinn ágætann gras-vöxt, og þótt hann hafe ei i aldin-gaurdum prófadr verid, þá er liklegt at hann hentugr sie, til at tempraz vid megra slags mat-jörd, og at hans beiska salt kunne henne vinveitt at vera, af þvi at þat er útrignt og vats-davst ordid.

Kalk tegundir einar saman, eda steinar og adrir hlutir i lim brendir, eru ei til áburdar hafande, þó margir tidke þat úti i laundum. Kalk gefr i fyrstu yfirsliótanlegann, og undarlega mikinn ávöxt, enn útdregr þar hiá krapta jardarinnar, so hún verdr dádlaus, og kann travdlega læknaz aptr. Kalk-blandin jörd hentar þar, hvar ormar eta ávextina.

Askan sem her fellr, sáe hún hvilt akr-lende, eda gard-stæde, er gód fyre surt land og vats-mikid; ormum er hún skadleg og mótstædeleg. Jurtaraskan hefir Salt i ser, helst alkala, menn vita at þat salt med visre tempran giörir jördina ávaxtarsama, og serilage saltpetrinn, hvörn slik aska kann til sin at taka úr loftinu. Auska stávar ávaxta være vert at reyna á Islande, þó fyrst á miög litlu. Þat besta úr sverdinum, sem er sú molld hvör ordin er laf

gras-

gras=rótum, deyr i brunanum, og saltid eitt saman verdr eptir.

Dyra líkama flestar tegundir, nær þær sundurleysaz og fúna, eru gódr áburdr. Hárid, einkum þat sem stutt er i, af navta og kálfa etc. Húdum, er sann=prófadr gódr áburdr, bæde siálft, og líka sú væríng og situ vesse, sem hárs=rótunum fylgir.

# Fiorde Kapitule.

## §. 14. Um Tilbuning gard=molldar.

At vore þegar leysa fer klaka úr jörd, á at stínga gardinn upp jafnódum, mest til alnar dyptar: heraf má ráda, at jard=veqrinn skal diúpr vera, og einkum tækeleg jörd so diúpt, sem álnar mále svare, at ei pæliz verre molld upp med, og spille jardargiædum: breida skal úr mykiu hrúgum nockru ádr enn upp=pælt sie, at lítt þornad gete: i sólskyne skal uppstinga votann gard, enn þurrann helst i regne. Hvar gardr er ei þvi stærre, má eptir Islendskre vísu klár brúka, til at beria i sundr bæde molldina og tadid, sem mulid er fyrst serilage, at menn vite hvad mikill áburdrinn er, enn hann þarf ei at vera meire enn so, at hann svare einum þridiúnge midlúngs mykiu, i móte medallags svartre mat=iörd. Undir þvi er mikid komid, at tadid og molldin se smátt barin og mulin, og sídan hvört tveggia vel samanblandad, alla köckla og smá steina skal madr úr tína.

§. 15.

## §. 15. Um Reitaſkipan alldingarda.

Ætla ſkal reit-rúm fyre nordur gaſlinum, ei mykiu-borid, þar ſkal Frœ-reitr vera, og á hann at hafa megre mold enn hinir, ſem ſídan er í plantad: ecke þarf hann ſtærre enn ſvare 12ta, 11ta eda meſt 10da hluta úr Gard-ſtædinu, hvad myndin ſynir.

Ichnographia Horti.




Her eptir má ſkipta aullum gardinum i reinir eda reiti: nefniz reitr hvórt ferkantad ſtycke aflangt. Ef reitr er hátt borinn upp, hvad er ſkiedr nær ein hvóriar mat-urtir ſkal ſerlega rækta, þá kallaz bedr. Reitar i ſtærra lage, vel lángir, ſo ſem i aukrum, eda ſtórum gródr-ſetninga gaurdum heita reinar. Sád-reitinn ſkal leggia langs med nordur-gaſle, ſem ádr var ſagt, þriggia edr fiógra feta breidann, bera þar upp moldina, ſem hærſt vid vegginn, ſo at halle ateins til Sudurs; ei þarf

haun

hann hærre at vera, enn fet frá gólfe, og sie gardr þurrlendr, þá lægre. Skipta má reitnum i þette, rispud af þvert um, sie fleira slags fræe sád. Þat er ecke einasta til prydis, helldur og nytseme gardium so sundr at greina. 1) At madr gete komiz allstadar at, eda tilnád, hvar sád er og gródr-sett, so at ei þurfe at stíga þar ofani. 2) At vatnid, sem yfirsliótanlega rignir eda dreifiz á, gete aptr burtrunnid. 3) At hvórt mat-urta kyn sie útaf fyre sig, so skamtad verde þar eptir, helst ef at meir þirfte at gæda einnre jurtar ætt enn annare. Nátturlegast er at hafa adal-gang-rúmid langs eptir midium gardinum, enn þver-gótur til beggia hlida, og láta so halfa breidd gardsins, skamta leingd hvórs reitar; samt má hann ei breidare vera enn so, at tveir medal menn náe sinn hvórinmegin á kniám standande síngrum saman yfir um hrygginn, þat er at skia: Urta-gardsmadr á at ná inni midiuna hvórn veginn sem vill, til at sá, gródr-setia, jurtum-hagræda etc. Ef gardr er raklendr, þá skulu reitir vera háir, enn sie hann i þurrara lage, þá lítid hærre enn gólfid. Reita moldin þristiz ei nidr, helldr ligge vid lavs, eins og hún var samanborin. Þó er betra at reitrinn stande einn edr tvo daga, til at síga lítt og jafna sig, ádr enn i hann er sád og gródr-sett.

## §. 16. Um Mismun, Sádjardar og Gródrsetningar.

Eg hafde nærre gleymt at giöra mismun sádjardar og gródr-setningar. Allt hvad sagt hefir verid um áburd jardar, einkum hinnar svaurtu, þá hlydir þat til meira hluta gardsins, hvór ætladr er til gródr-setninga, enn sád-jórdin, sem fræid er

fyrst

fyrst i látid skal ótaudd vera at mestu, helst ef hún er góð, þá skal melia molldína vel, og af þeiri mylsnu reit forma, med sama lag sem mælt var. Nægia kann; at af 16 jafnstórum reitum sie einn tekinn til út=sáds, ef þiett er sád, og ef ei er meir enn einn og hinn same gardr til plantunar og út=sáds, annars sie fræ=reitrinu stærre. (§. 15.)

## §. 17. Um Innesád.

Ef menn óttaz vor=kulda fyrir aldinis jörd, og hvört sem er, þá er forsiálegra at hafa sád=örk eda frió=kistu tveggia eda þriggia álna á hvöru veg, eins fótar diúpa, med gisnum botne, eda nafar=ravsnm og hönkum til at bera, annars má nyta stampa, med gautndum botne, i sád=kistu stad. Her skal láta samalags mold í, sem i sád=reitinn, og sá þar i, enn sáiz hún ei fyri fróste, þá má vel taka i fiár húsum góda=jörd, edr annarstadar undir húsum og sá þar i. Gnæfe sidan kulldar, má setia inn um nætur, hvar ei er manna edr an=nar ilr, helldr hreint loft, og skal þauk yfir hafa; hestar eru þar til þurrar reidings=torfur, reita þó ádr yfir þunnum spitum, at ei hvile þaukinn á moldinne; út í solskin og i hlie fyre nordre skal bera sád=kistuna um daga, og kann so miklu fyrr i henne at spretta til gródr=setningar, enn úti i gardinum, þótt ei kale þar.

# Fimte Kapitule.

## §. 18. Hvad gaumul geymslu Fræ verda mege.

Null Fræ hafa vissann alldr, sem þavg geymaz kunna; og skal hvör gardsmadr þat fyre sig at giæta.

giæta. Tildæmis; Græn-káls fræ verdr ei dugan-legt lengr enn 4 ár, enn á audru áre er þat allra best. Næpur og. rósur hafa fræ best eptir 1 ár, enn dugir þo vel tveggia ára. Mustards korn er best eptir 2 ár, enn helldr þó nægianlegre dád 6 ára tíma. Ertir duga 3 ár, baunir 5 ár, og eru þó hvóriar-tveggia bestar til ut-sáds árs gamlar. Hvann-fræ best 2 ára, enn varir þó 4 ár. Legg-blóms kál verdr þriggia ára. Karottur bestar árs-gamlar, vara þó 2 ár. Gurkur bestar tueggia ára, geymaz 6 ár. Hrafna-klucka sú tamda (karse) best tvævetra, og þó dugleg 4 ár. Hôfud-lauks fræ (Porrum) verdr ei gott lengr enn 1 ár. Meiran endiz mest 2 ár. Gard-murur (ficeres) eins, og líka Pastinacha. Peturselia verdr 5 vetra gaumul, best tvævetra. Rodiser og hredkur 4ra ára, bestar annars árs. Salat endiz eins lenge, og þó best at áre lidnu. Spinacka og Sillare nær eigi þridia áre. Raudr Laukr (Tvifill, Cepa) bestr til ut-sáds vetr-gamall, enn varir þó vel i 2 ár. Her á lande kunna þó fræ lengr at geymaz, i þvi hreina lopte, sem her gengr, enn þesse ádr skrifud raun, er giór i sydre laundum. Sie fræid ei gott, verdr þat sem af þvi sprettr lakt eitt og síd-bært. Sídr er at trua smáu fræe og flautu, enn stóru og bôllóttu. Leggia má kál-fræ i vatn. Nær þat hefir nockra stund þar i legid, sôkr þat góda fræ, enn óuytt er þat sem flytr. Sama er at segia um aull bôllótt fræ. Nær madr tiggr fræ, finz hvórt þat er smeck sterkt edr ei.

## §. 19. Hvørnin fræ skal geyma.

Fræ er best at geyma, i glerudum leir-budkum binda vel fyrer ofan likuar belg, og hreint bref þar utan yfir. Slátid sie vel þurt og bakad, so enginn

mavr eda mosk sie i umbúdunum. Húsid, sem fræin geymaz i, sie rakalaust, ei heitt og ei helldr þerrir-hús, at þavg ei ofmikid skrælne: ei sídr þarf þetta atgætaz, ef margar tegundir fræa eru i smá brefum saman-brotnum, at þav bref sieu hrein af mavre eda moske, adr enn i geymslu kerin látaz.

## §. 20. Um Frio-virt.

Til Frió-virtar má taka hálfa mörk saltpeturs, i 12 potta vats. Þesse virkt er skadleg, ef jördinn er súr. Annar mátinn er at bleyta fræid i sterkum mykiu lege, og þesse er almennastr, gefur gódann ávöxt, enn þessu korne skyllde sídan sá i magra jörd, annars verdr ofvöxtr og vanskapan, enn frævan enge gagnleg. Þridie mátinn er at taka trenada nióla, eda visnada legge hvörrar, vaxta tegundar, med rótum, sem finnaz og þurkaz á vor tíma, brenna þar af auſku, setia á þá ausku regn-vatn, og hræra saman til þess dregz úr henne seltan. J þessa lút má fræ-kornid leggia, til þess þat bólgnar; eins gefa mikinn ávöxt korn til útsáds, i hálm-ausku lút laugd, vind-þurkud sídan. Allslags frækorn má i regnvatne deigia, vind-þurka sídan á fiöl, án sólar fyrr enn sád sie. Einkanlega skyllde sú atferd brúkaz vid fræ þat allt, sem menn vita gamallt er ordid, og efaz um at uppkoma mune at gagne; verdr þat fyrr til at digna, nær i jördina kemr, og samlaga sig hennar vetsa; er þesse ein orsauk, um allar hinar taulldu ravnir, at fræid tekr so fliótt til at tímgaz. Þat gamla fræ má liggia 15 til 20 stundir i vatne, hid yngra skemr. Ef fræinn svella so frekt, at bresta vilie, þá verda þavg ónyt, og eingvar urtir koma sídan fram af þeim. Hættulegt er at bleyta snemmsáid

sáid korn, nema vel se aptr þurkad, þvi kome frost, grípr þat lángtum fliótar soddan fræ enn hid þurra, enn sien frostinu úte, gyldir einn þó lítt edr ecke þornud i jörd fare. I uppleystu mollds-ykre brúnu geymaz fræ nockur ár, líka i sykur-sirope, er þat rád fundid i Nya heime, og brúka þat reisande fólk.

# Siötte Kapitule.

## §. 21. Um Sáningar-tíman.

Vedr velia menn, gott og stillt, ecke þerre-storm, eda sól-skins þúrk, at ei þorne strax jördin og sædid, helldr þyck-vidris dag hægann, þegar, hlytt er og molla, helst kvölld-tíma, þá jördin er náttúrlega rauk, utan nætur-frost se at óttaz, þá er betra at bída morgun-tímans. Menn plaga at sá med vaxanda túngle aullum þeim mat-urtum, sem upp skulu vaxa, so sem eru kála kyn og salót etc., enn hinum sem kólfa gefa skulu, so sem næpur, rófur, laukar etc. med þvi mínkande. Nær ísinn er uppleystr, hvar fræ-reitrinn er, og sie verdrid hlytt og gott, þá má fara at sá, iafnvel þótt þunnr klake være eptir nedarlega, ef þat annars er siáanlegast, at vetrar-vedráttan mune vera úte.

## §. 22. Um atferd Sáningarinnar.

Mátinn at varpa sædinu, er ymislegr; (enn eg tala nú ei um korn-akra helldr alldin-gard) nockrir hafa þat i skál, taka i lúku sína og dreifa þvi fríhendis yfir fræ-reitinn. Sie hann i smá stycke

 sundr

sundr skiptr, sem her kallaz pette, (hvad navdsynlega hlytr at skie, ef fleira kyns enn eiune káls- edr annara mat-urta tegund er sád) pá ser betr at dreifa med nockurre stillíngu. Adrir, til at drygia fræid i höndum sier, at Þat hvörke strax uppgange, ne helldr of Þiett verde i jördinne, Þá blanda Þvi vid helming af sande, og slá Þvi út yfir reitinn. Nær sád-landid er mikid yfir-ferdar, Þá er Þesse mátinn bestr, Þegar hann brúkaz med nákvæmne, og Þar fyrir utan er sandrinn allgódr, nefnelega sá eiginlega so kallade sandr, er fyrr var umtalad, og eins skelia sandr, Því at Þó nockud af hönum yrde nálægt og elskade fræid til ávaxtar, enn tæmde lítt jördina, Þá sakar ei á so litlu platse, sem at havste jafnaz med betri molld. Nú er sú skást atferd, sem vel tempra má, at taka ei meir fræ um sinn enn lodir i mille tveggia góma, og láta Þat smám-saman nidr falla. Reglulega sáiz, ef menn giöra smá rákir med fíngrinum, taka fræid i mille fíngra sinna, og láta jafnt i Þær falla, dreife so yfir Þeirre molld, sem upp dróst úr rákinne.

## §. 23. Hvad Þiett skule sá.

Málid, hvad Þiett skule sá, verdr víst at vera; ef ofÞiett er fræid saman, og Þó mistafnt være sumstadar, Þá koma upp Þyckvir skúfar, hvar í Þær úngu jurtir sitia so Þrangt hvör annare, at eingvann voxt fá; og Þó vaxe med ærnum hita og vökva til mikillrar hædar, verda Þær Þó bæde mióar og veikar, at eingvann vind Þola samstandande, og enn sídr nær gródr-setiaz, Þvi Þá detta Þær stærre út af, og giör visna vid minsta jölskin. Málid er einn Þumlúngr, edr minst eins fíngurs breidd, i mille hvörs fræ-korns, og

þó meira være enn þumlúngs bil sunnstadar, er aullu vel.

## §. 24. Hve diúpt skule sá.

Um dypt kornsins, edr hvad diúpt skule sá, er eigi sidr þörf at ræda: menn dreifa alment fræinu ofan á, og draga sidan lavst yfir hördina, so at allt rugliz saman molld og fræ, enn vid þetta verdr bæde ójafnt sád-verkid, þótt ádr være allt reglad, og sum kornin liggia ofan á jördinne, og kala um nætur, aunnur fá of diúpa standu. Mæling dyptarinnar fyre midlúngs frió og stærra slags, má vera fingurs dypt, edr eins þumlúngs. Þess stærra sem fræid er, þvi dypra skal þvi sá, enn hinu smærra grunnara, og eins se molldin fyre þat lavsare, hvad af siálfu ser skiedr, þvi nedre molldin þiettiz af hinnar þúnga.

## §. 25. Um nidre legunnar ábreidsl.

Her á lande er at óttaz vor kullda og næturfrost, þvi er rádlegt at sá yfir reitinn skiól-mylsnu, af þurru navta tade. Sie ei þetta at hrædaz, ne helldr sólar þurk um daga, þarf varla slika abreidu, þegar diúpt er sád; enn nær fræinu er dreift ofan á molldina (so sem þvi minsta) þá være þessa þörf, þó má lika þykt vera ofan á þvi smærsta fræe. Þav fræ, sem ei vilia mikla feite edr hita, mætte hylia at eins med þyckvu lage af óræktar mosanum græna, þar hann gefir skiól fyre vindum, þyngir ecke korninu, og er hita minne enn tadid. Molldin siálf, nær hún er góð og miúk, er sin til yfir-breidslu.

 §. 26.

## §. 26. Um vökvan alldin-gards.

Til vökvanar skal taka brunna-vatn, tiarnæ- eda staudn-vatn, og helst regn-vatn, enn hvörke myra ne jarn-láar-vatn, ne kullda vetsl. Nú er þat vatn skást til vökvanar fyre fræ og úngar mat-urtir, sem avsid upp i vökva-kier, stadid hefir nockra stund i sólskine, so farid er sullt at verda. Vatn sett á nauta-myke eda sauda-tad, so at löginn hafe urdregid, þat er heitara enn hitt, og vegna þess i kulldum gott, þó á þat best vid gródr-setningu. Drif-kanna er giörd úr-lendis af jarn-blicke, enn vier skylldum til at spara útgiftir af landinn, eckert útlendskt kaupa, sem vier getum án verid: nú má drif-könnu smída af tre, sem stora dryc-kiar-kaunnu lok-lausa, med traustu handar-hallde, og stút er útgange skamt fyrer ofan botnin, og rise upp jamnhátt kaunnunne. Stúturinn á at slá sier vídt út framan til, sem treckt være i hann sett, med loke yfir eda botne gagn-gautudum. Þesse botn skal vera af eyre eda blicke, af þvi gautin geta þá maurg ordid, smá og þiett, enn tre-gaut verda víd, ójausn, og svella af vætunne. Þvi betr og nátturlegar fer, sem vökvanin verdr smá-dögg líkare, so at ei skeckiz hinar úngu og veiku urtir.

## §. 27. Hvad lenge Fræ liggia i Jördinne.

Eptir þat búid er at sá, lidr ei lángr tíme þar til eigande væntir gard-gródrs, enn á medan ei kemr kál upp, þá kalla menn at fræid ligge nidre. Sá tíme er miög misslángr her á lande, eptir vedráttu-fare, sie vel ært, þá kann siáz vöxtr

ofan jardar, á hinum áttunda dege fra þvi sád var kále, þó land stadan sie hier nordarlega ef vedr lagid er jafn-mildt. Sudr á lande kann enn sliótar upp-koma. Optast liggr fræ nidre hálfann mánnd, og 3 vikur i lengra lage; enn dragiz lengr undan upp-koman, og hefr vedrátt þó verid bæreleg, þá er útsádid ei gott: enda sie jördin ei gód, og skiælur ganga, kann giarnan lída mánadr, hafe fræid verid ofþurkad eda gamallt, þarf þat lánga stid til at digna i jördinne, ef þurkar ganga, enn fyrr kemr ei vaxtar hræring i þat, helldr enn at deigt og mykt er ordid af molldar rakanum; þvi er nauð-synlegt ádr at bleyta enn sád er, so sliótar take vid ser i jördunne.

## §. 28. Um Fræ-dauda merke.

Nú hafa kulldar og nætur frost gengid, enn seinkar uppkomunne, so at jurta-gards-madr óttaz at allt fræid mune daudt vera, þá er best hann leite at nockrum kornum, bregde i munn ser, og finne, hvört þavg eru smackande, þá er gróda von ef þov smeck hafa. Item, siáe hann þá fyrst upptekr, at korninu klisiaz sundr eda bresta, þá er merke til at hiartad hefur fengid lífs hræring. Enn sie þat óbreytt utan til, og þar med smecklaust, þá er þat ónytt, og má strax hylta um reitinum, jafna vel og sá at nyu, eptir at skiól-mylsnan eda mosinn var af-rakadr, enn vænte hann at sumt kunne þar upp at koma, þá take hann annad pette til at sá i.



# Siøunde Kapitule.

## §. 29. Um Ung-urtir og Ill-grese.

Nær fyrst siez, at af frœunum fer at spretta upp úr mollduine, þá er sagt, at kálid kome upp. Frá þessum tíma og til þess plantad er, heitir þat úng-kál og annad alldin úng-urtir. Ill-grese kemr optast med, mest af nauta mykiu og molld þeirre, sem tekin er nær húsum, og er ei aud-þeckt frá jurtunum i fyrstu. Illgrese kallaz þat allt, sem vex ósád, án eiganda vilia, þat algengnasta er arfe, þar nærst púng-arfe, hlad-arfe etc. Hvórnveg arfanum eyda skule var ádr sagt, enn at upprœta hann i gaurdum þarf varúd vid at hafa hiá úng-kále, þviat fyrst sundr greiniz hann ei frá þvi, þar á hvóriu tveggia grase koma 2 blaud upp samanlaugd, og allopt hinn davde frœ-hamur ofan á þeim, enn þegar lítid lídr frá, og vel er atgœtt, þeckiaz arfa blaudin mió og hvauss, frá hinum er breida sig út ofan á molldinne, og kallaz nyru, eda nyrna-blaud, af þvi at haug á kále, næpum, mustarde etc. hafa mynd sem nyra være, þá eru rœturnar so veikar, enn molldinn laus, at takiz haun upp, þá vill ung-kálid med uppgánga, þvi skal bida til þess nockud vex og styrkiz, skal þar eptir illgresid taka, og siá til, at med rótum upptogad verde, annars kemr þat á nya leik. Illgresid má ei þess vegna hvílld hafa til at vaxa, at þat dregr bradt næringu frá; þeim taumdu gard-urtum. Opt kemr frost og kullde, eptir þat úng-kál er uppkomid, er þá varlegra at sá enn yfir þurre tad-mylsnu,

sem

sem þat vex upp úr sídar meir. Nú kemr kyrkingr i úng-kál, ellegar þat kelr, so at hvítir blettir siáz á nyrum, sieu þeir stórir, þá er ráðlegra at yrkia á nyann stofn, tilbúa og sá annann reit, ef rúmid er nóg, og láta samt þeunann standa, være nockur von um hann. At snjór frostlaus nidr falle, skadar ei. Þó kál vaxe úr kyrkingu, þá verdr samt hitt fliótara, sem sídar var sád, ef þat hittir góda vedr-átt. Allar kál-tegunder, ásamt næpum og rófum etc. þurfa vökva i þurkum, annann edr þridia hvörn dag, eptir lands laginu.

## §. 30. Um Gródr-setninga reite.

Gródur-setning kallaz, nær úng-kál er med rótum upptekid, og fært i annann stad, til at slá sier þar út med fullum vexte, og nefnaz þá úng-káls urtir gródrsetningar. Tíme til þessa verks er ei vissare enn sád-tíminn, því þat er komid bæde undir vedr-átt, nær úng-kálid er nóg vaxid, og líka vilia gard-bóndans, hve snemma hann vill láta flytia. Flestum kemr saman um, þat skule vera vaxid her um hálfs-fótar hátt, og verdr til þess i medal áre, mánadar tíme, frá því úng-kálid kom upp, ellegar skiemur.

Talad var ádr um tilbúning molldarinnar, eins fyre gródr-setninga, og skal þat hier ei upptaka. Nú er þó betra at mynda ei reite, og jafnvel at beria ei ne melia tad og jörd saman, fyrr enn einum edr tveim daugum ádr enn gródr sett er, enn plægia skyllde jördina tímanlega. Þeir sem hafa margt hyske, og vel fella sig vid mat-urtir, munu þurfa sieri lage og vel stórann gard her til, mega þar reitir eda reinir langar vera, enn ei margir þver-

 gángar,

gangar, so rúmid sparis. Reita=breiddin skal vera, sem sagt var (§. 15.), og er best at afmæla þetta (so óskakt verde, og ómyndarlavst á at líta fyre geste) med tavm=burde, þat er hælum tveim med tygle á mille. Þver=gata skal þó vera ein um midt gólf, og fleire sie gardrinn langr, at ei neydiz menn, ef navdsyn fliótt at ber, at troda yfir um reinarnar.

## §. 31. Plantanin siálf.

Ung=kál skal varlega upptaka, so'at rætlingar edr ángar slitne sem minst, og blaudin ei helldr brotne. Jörd á rótunnum at fylgia, so mikil sem vid loda kann, og er best at hafa hreint trog, til at leggia jurtirnar i, allar eins og snirtelega, enn búnka þó ei so margar, at þar fyre lyiz eda brotne. Sólin má ei skína á kálid, frá þvi upp er tekid, og til þess gródr sett er, at ei liniz og ónytiz. Sá mátinn er enn óhultare, fliótare, og vastur=minne, at taka einnhvörs stadar utan úr sád=reitnum, (annad hvört á reku eda med bádum höndum hóglega þeim stingande nidr i molldina, so at úng kál sem minst skaddiz, og so diúpt at fare nidr fyrer allar rætur) einn hnavs eptir annan, og setia kirse lega i trogid, bera þat so fullt þángat, sem gródrsett er, og taka úr hnavsunum eina jurt eptir adra til at nidr setia. Med þessum hætte sakar ei þó sólin skine á kálid, nema á sárid i reitinum, hvar upp var tekid, og berar siáz ræturnar, þvi skal jafnódum molld at þeim sópa.

## §. 32. Um Plantanar vedr.

Allir forsiálir gard=yrkiu menn velia mildt og hægt vedr til setningar káls, og annara mat=urta.

Mollur

Mollur og þyck = vidre, edr úrkomu = lítid vedr er allra hentugast. Nú gengr þurke og sólskins dagar, enn úng=kál er so miög varid at ei má lengr bída, at skadlavsu, af þvi þat vex i soddan þravng mest til hædar, enn dignrdin verdr eingin, dettr þat so út af, nær gródr = sett er, og þó vídrettiz, þrekaz alldrei, ne fær so mikinn vöxt, sem annars at sier átte; þá skal ei fara at setia fyrr enn sól er af garde gengin. Sama gyldir, þó úng = kál se tekid úr sád=kistu. Planta má kál i skugga edr annars stadar undir garde, hvar sól skín ei a i þat sinn, þótt hátt være á lopte. Bil á mille gródr = setninga, skal vera 1 fet, edr hálftannad, nær snemm = gróid er, ei skal planta utarlega i reinarnar, at ei verde rótin ber, ef at molldin kann hrynia úr böckunum, og er gott at þeir see ei þver = gnyptir. Gródr = setinn hefir sívalann stavt i hende, hálfrar álnar lángann, er sú spíta adbreginn, og mió til annars enda. Med þessu smátóle mælir hann bæde bilid i mille radanna, og so i rödunum sialfum á mille kálsins, sem setiaz a. Gródr = setinn görir og med stavtinum holu=korn, til at setia jurtina nidr i. Skal þat atgæta, bæde at hún halde sinne fyrre molld vid rótina, og einkum at rótin setiez rett nidr, og i þvi sópa molldinne i farid til studnings, at hún heikiz ei ne hruckiz. Avk þess skal atgæta, at rótin söckviz ei of diúpt, og er mátinn sá, at vid nyrun neme stadar, og hvíliz þavg ofan á molldinne, enn fare ecke i kaf. Nú er til annar máte ohúltare og greidare, nefnelega, at brúka ecke stavt, helldr stinga i molldina vinstre hende, hallda jördinne opinne, og setia so med hægre hende úrtina nidr i giána, taka höndina vinstre upp, láta molldina aptr samansella, og þiappa henne hóglega ofan til at urtar = stofninum, sem

sem standr vid þetta staudugr, enn eingiun blástr eda kullde kemz at rótinne. Nær þesse reitr er alsettr vökvaz hann hægt, enn þó jafnt og nægelega, med smá-dropóttu drise, og svona er farid reit af reit, þar til gardrinn er fullr af nyum gródr-setningum. Ur sád-kistu skal allt eins planta, nær þar er úng-kál nóg vaxid, og setia þat nidr uti i garde.

## §. 33. Um Dá-tímann, eda þá tíd jurtin byr um sig.

Strax eptir plantan, skal vatna jurtunum vel, enn jafnt hægt og smá-dropótt, so hvörke brotne þær ne bæliz nidur, eda molldin skoliz á bravt. Plantanar urtir liggia jafnan i dáe nockra tíd eptir gródr-setning, þar til ræturnar festa sig, og draga næring, at vökvinn fáe sinn umgang i allre jurtinne. Slíkt ómegin lengir og eykr sólar hitinn, ef hán giör tekr grasid, i þess siúkleiks tilstande.

## §. 34. Um Vökvanina.

Sú einasta líkn þar á móte, er óforsómud og tíma-bær vatnan med sól-volgu vatne. At hafa til þess nykin vatn, so sem heitara blá-vatne, þat er á qvölldin hentugast á móte svaulu nætur lopte. At morgne komanda má aptr vökva, med ferskn brunnvatne, af þvi at þat kælir betr, enn hinar tvær tegundir, sem ádr vóru taldat. At kvöllde skal nú ei vökva, ne morguninn þar eptir, helldr um hádegis bilid, sie enn sól-skins hite, þó med ókauldu vatne, og so skal breyta hvörn dag, á medan heitt er og heid-birta, þangat til mat-urtirnar fara siáanlega at hressaz. Ur þvi þarf ei at vatna

þeim

þeim optar, enn annann eda þridia hvörn dag. Enn nær sem þyckt vedr er, þá skal hvörke ádreisa, ne helldr þann tíd kálid setur i ómegne, hvad vara kann viku edr hálfs mánadar tíma, ef þat var i stærra lage þegar þat var plantad: enn þetta dá merkiz lítt á hinu, sem úngt og smátt er plantad, nema hvad þat vex seint lenge fram eptir. Ur þvi kálid er lifnad og farid at vaxa, þá þarf ei so náqvæmlega med smáu drise at vatna, helldr af stór-gatadre kaunnu, skál edr aske margborudum, so þat sáe nægelegt, bæde á siálft sig og rúmid á medal stofnanna. Nær plantad er i mollum og úda á mille, og so vidrar nockra daga á eptir, þá verdr varla neitt af dáinu. Þegar blaudin, eru ordin stinn, þá er dá-tíminn úte, og fer sídan kálid ódum at vaxa, þarf þá ecke at vatna þvi, allt ef skúrir koma á viku freste, nema þurkar gánge; einkum þarf nægelega at vökva, úr þvi at gards-molldin fer at bresta diúpt og gagn-þorna.

## §. 35. Um Vats-leidslú.

Nær miklir þurkar gánga, dugir varla at vökva, være þá best at leida vatn inn i gardinn, hvar þvi verdr vid komid vegna af staudu landsins, og þá ern betre þver-reinar, so vatnid síge undir þær, fyrst þær efstu, og á medan má teppa fyrir aull gautu-skaurd. Sídan nær þavg efstu bed, eru ordin blavt, þá má teppa nedre gánga, og láta vatn falla ofan at næstu reinum, þangat til allr er gagn-votr ordinu gardrinn.

## §. 36. Um Skúfa-Plantan.

Skúfa-plantan verdr stundum at brúka, þá vídáttan er ei nóg til at setia úng-kálid allt i sundr,

þvi

þvi at forsiálir gard=yrkir menn, sá so nükla á vorin, annad=hvört i stórann reit, edr sád=gard serilage, at þeir hafa úng=urtir nogar, hvad sem uppá kemr, jafnvel til at gefa grönnum sínum, enn at ei verde gagnlaust kálid, þat er afgángs var, og ei vard gródr=sett, þá taka menn þat upp i smá=hnavsum, sem vid setning var rád fyre giört, og setia jafnt i sundr, her og hvar um reitinn, fær þetta skúfa=kál nüsjafnann vöxt, og sumt allgódann, annars se lítid ung=kál eptir, þá má planta þat i hinum sama reite, sem þat er vaxid i. Sídan er til navtnar fyrst skorid kál innan úr þessum skúfum, so at hitt fáe þess meira rúm at spretta.

## §. 37. Um Frumgróda og uppskeru Káls.

Nær kálid er so þroskad, at þólir vind og vedr, leggirnir eru þreknir, og blaudin maurg og mikil ordin, þá er tíme til at fara at nióta síns erfidis og gardsins frum=gróda; so kallaz fyrst vaxid kál og ávextir, skal skera þar af til matar smám saman, enn ei hvöria jurt frá stofne, þvi at þá hefir madr hana mist, helldr rótar eda stofn=blaudin, og her og hvar af leggiunum, þar vid vaxa þavg efre, og stöngin aull þvi meir. Snid=kál er til blad=skurdar best, þvi at þat vex ódum, enn þó vanad sie, enda geymiz þat ecke vel um vetrinn. Toppurinn, topp=hiartad, hin efstu blaud og smærre legg=blaud skulu kyrr og óskert vera med aullu, eins þav krullodu blaud i krikum blava=leggia, hvar út af blómberande greinir spretta. Fordaz skal gard=madr at rífa eda slíta blaudin af, helldr nema þav med kníse ei rett vid, helldr hálfum þumlúnge frá legginum, og só at sárid snue ei upp, at vatn festiz á, þá skere þver=gnypt (perpendiculariter), sie sárid

sárid mikid eda leggrinn digr, þá má klína þar i miúkre svartre molld, at betr fyre gróe. J þeim legg kríkum, hvar greina-hiaurtu fara at fiáz, ellegar útkomin eru, þá skilie eptir nockud af bladinu nedan, til skióls og styrks. Nær kál-vöxr er ordinn so mikill, at liminu verdr þravngt i búskuunum, þá má heilar stengur upp skera innan úr; þetta skiedr ósialdan hiá þeim tegundum sem blaudin hafa breid og óhrockin, so sem eru hvítt kál og rósna kál á jörd, enn krull-kál breidir sig midr út, og leggr meir til hædar.

# Aattunde Kapitule.

## §. 38. Um Ymsar Kál-tegundir.

Þá verdr nockud um at geta brúkun kál-tegunda til búskapar, enn um matar tilbúninginn siálfann villdeg lítid geta i ødrum stad. Rósna kál á jörd og snid-kál gefr mestann ávöxt á stuttum tíma, og þat skylldu bændr helst yrka á sumardaginn, þvi at bæde sprettr þat avdvelldt, og hefir blada stærd og fiöllda mikinn, þat þolir og helst at láta vana sig, enn er ei til vetrar ætlande, þvi sidr geymiz innsett, ne þolir frost. Af einum snid-káls gródr-setninge hafa 3 menn fengid her ærna máltíd, vóru þá blaudin ein til gravtar mat-reidd; jurtin stód siálf eptir med toppinum, berauda sidar ei sá blóm. So mikill verdr vöxtr kál-tegunda þegar vel lætr.

Brúnt kál, þat sem allmennelega af Daunum so nefniz, tekr sierlega miklum vexte á Jslande, þvi skylldu

skylldu landsmenn útvega sier þat; kál-alldin og legg-alldin kallaz styckiadir ótrenadir, leggir kál-tegunda, helst sníð-káls, sem gefir þá ærið mikla og digra, þat brúkaz i spad og kál-gravta, og er farið at taka þat á liðnu sumre, nær vöxtrinn er so mikill orðinn, at heila stofna má uppskera innan úr buskinum, til at gefa þvi eptir standanda kále meira rúm.

Krull-kál hefir nockrar tegundir: þat sem hefir breid bland og utan krullud, blá-ravda legge, i miórra lage, og tídast bugdótta, þat kallaz her blá-kál, og er nockud lakara enn hitt sem á eptir kemr, þvi þat er bæde stórgerdara og endiz sídr innsett, enn þat algengnasta döck-græna krull-kál er i miklu meire ferdum, hefir beinne og digrare legge, þægelegast til átu, og hentugast i stauppu at hafa. Þessir stóru leggir gefa sætann lög, og allra varanlegast er þat, edr endingar best til innsetningar, og at þola frost og snió. Her hefir þat innsett lífad og til matar endz, frá havsti fram undir fardaga.

Allt þat kál, sem breid, þyck og vid-krínglótt bland hefir, er hard-ætara og stórgerdara enn annad kál, so sem rófna kál á jörd, ravdt- og hvítt-kál, helst þat sídasta, sem ei bídr höfud á voru lande, og kann þvi ólag vallda. Þat á at plantaz i smá grafir, so þar framan af skuggann hafe, og sídan at hrúga utan at þvi molldinne, so at blaudinn þess hægra lyke sig saman, eptir þat nedre legg-blaudin eru afstyfd, til þess at vöxtinn legge þvi meir til höfudsins. Þetta verk kalla Danir og Þydskir: at hopa, enn vier kunnum at kalla, at gródr-girda kálid. Fyrir utan höfudid, gefa menn utanlands stórstyckiad hvítt-kál stálma-kúm og nybornum.

Miólka

Miólka þær þar vid ágætlega. Stór-styckiad og sodid brúkaz þat fyre slátr-svín, og líka hænsne.

Legg-blóms-kál, sem Þydskir og Danir kalla blóm-kál og carfiol, (Brassica cauliflora) er fyrir aullu audru kál-grese; nefnelega þess ótalfaulldu hvítu blóm-hösud, hátt og lágt, sem gefa sierlega þægelegann, miúkaun og hollan mat i savpe og þeirre rióma líku stauppu; enn þat vex her harla lítt, og þess silfr-væga fræ verdr lángt til at sækia. Þetta kál vill hafa þá best tilreiddu jörd, og hita-mestu staudu, stærst legg-blaud skal afnema, so ei drage vessa frá blom-hösdum. Yfir sád-reitnum á at tiallda i nætur-kulldum, med baste edr halm-dúkum; plantad vill þat bæde vidraka og feita jörd, vel blendna med súinne mykiu, krekrar álnar bil á mille stofna.

## §. 39. Um Vetrar alldin.

Margar vorar gard-urtir fella blóm og leifa, frió-belge edr filiqvas hid fyrra sumarid, enn fiærre þvi at fræin roskniz, er og lítil getu-bót at þessum ótíma bærum bráð-þroska. Nú forvaraz þær mat-urtir, sem menn ætla til frióſganar at sumre, ymis-lega vetrinn af: stundum hyliaz stofnar med mykie, þá rótin frys ei til skada, helldr lifir þar undir til vors, þá mykian er aptr ofan af tekin. Ymist, ef snemma snióar, þá má moka snió, at þeim i gards-hornum, eda vid vegg undir nordre. Aptr má og tímganar alldin undir þak setia med audru kále, og þesse mátinn er algengnastr, mest um servelldis urtir, hvar á medal annars eru kál-tegundir allar, næpur og rófur, þær eru i tetradynamia, sem allar eiga i blóminu 6 karl-stöngla, enn two af þeim lægsta, hvörn á móte audrum.

## §. 40. Um Henge-kál.

Enn er sá máte at geyma kál um hríd, at taka kál-urtir heilar, draga hamp-tygil i gegnum rótina, og hengia so upp i slagalavst og þó vindlavst hús, hvar einginn mann-ilr er, þannin geymaz hvíta-káls hôsud utan-lands og rófur, og eins kynne her at geymaz allt þat kál, sem vessa ríkt er, og rætur digrar. Med þessu móte kunna fleire jardarávextir at geymaz, á medan þeir sá vökva frá rótinne. Best er at leggia soddan hángid kál i vatn, ádr enn brúkad er til matar, helst ef þat hefir lenge hangid, og er farid at skrælna. Hátt i húse skal þetta hanga, og má þar eingiun illr davn vera.

## §. 41. Um Vetrar-kál og Innsetning.

Nú vill madr vetrar-kál hafa hvört treggia til fágætis edr heilnæmis og matar dryginda, þá getr þat skied med ymsum hætte. Fyrst má taka kál-eykurnar upp med rótum, og setia i rödum so þiett sem verdr i upphrærda molld langs med vegginum, hvar snió leggr yfir, og skal her at moka snió, ef þarf, enn grafa til aptr á veturnar, nær kál þarf at taka til matar. Annars stendr kálid lenge úte i reitum óskemt i snió og froste, fram til jola eda meir, og má so taka af þvi smám saman, enn med þessu móte verdr þat uppgangsamara og urgangsamara, helst ef lítid var til., og kome regn eda blotar med stormum, þá skemmiz þat miklu fliótar og brotnar til skada. I annann máta má repta yfir eitthvört horn gardsins, tyrfa um utan, og setia kálid þar inn. Þó innbláse nockud, skadar travdlega, nær ei gagnrignir eda sligaz af snióþyngslum. At þridia lage er kál-hús bygt, borin

þar

þar inn gard = molld, hvǫr ei er vot miǫg, helldr náttúrlega vid = deig, plantad þar i kálid so diupt sem úte stód, og þiett sem verdr, betra er at leggirnir halliz lítid upp at veggnum, so at hvad stydie annad; molldin þiappiz vel at rótunum; gáng=rúm má vera eptir midiu gólfe, og lióre vídr á midiu þake vid mæne = tródu, med háse i; til hans má taka qvartil edr hálf=tunnu; betra er at vind = augu være aptan og framan, sem opin sieu sett þess á mille, nær úrkomulaust er. Af þessu kále er skorid upp allaun vetrinn eptir þaurfum, enn at vore ræturnar burt teknar, og húsid látid blása um sumarid. Þær af þessum rótum sem lifa, má planta úti i garde, vex miklu fyrr af þeim kál til matar enn af fræe, líka geta menn af þeim fengid friómædur.

# Niunde Kapitule.

## §. 42. Forskrift um Kál = hús.

Grund=vǫllrinn sie þurr og plátsid þerrasamt, eda svalt nockud. Tóftin sie hladin af þurru torfe, ellegar þurkudum hnaus, so at vídar dyr sie á bádum endum, þat skal vera rismikid og hátt, ólekt, med nockrum gluggum á þakinu beggia megin, sem rept er yfir á vetrum, med stórum lióra á midiu og vænum háse eda reyk=bera; vindauga sie vídt innann til, med spelum i, eitt á hvǫrium hlid=vegg nídr vid gólfid, annad aptar enn i midiu, hitt framar. Þil skal vera fyrer ofan bita framan og aptan, med renne = loks glugga sínum hvǫrin = megin. Fyre bádum inn = gǫngunum grindarverk, fast þeim

megin sem eigi er um farid, og so þiett, at ei komiz þar hundar inn. Þiett tvískipte-hurd, eda tveir hlerar sie þar fyrir utan, efre og nedre á hiórum, at upp megi lúka hvórium er vill. Grindin fyre þeim rettu dyrum skal læst á hiórum hanga, enn hin þietta hurd þar fyrer utan má aptr halldaz med snara eda klinku.

§. 43. Vid Kál, sem innsetiaz á, skulu eptirskrifadir Postar, atgætaz.

1) Jórd skal inn í kál-húsid flytia úr gardinum af þeirri, sem gródr-sett var í, og þetta i þurru vedre, so at nylega hafe ei ádr vott gengid, skal reitina mynda nockrum daugum ádr enn sett sie, og láta á medan báda enda, og alla glugga opna standa, til þess husid sie innann þurt ordid, og molldin nockud sigin, ádr enn kálid kemr.

2) Þat skal tímalega innsetia i gódu og úrkomulausu vedre, úr þydre jórdú, þá kálid er þurt, og láta molldina sem vill loda vid ræturnar, er best at bera þat á þiettum bórum edr i stórum trogum inn, og taka varlega upp, at ei brotne.

3) Þær kál-urtir skal velia, sem heilar eru, lífs-fúllar og ólinadar, og rídr meir á þessu seinasta, enn þó eitt blad kynne nedarlega af at vera skorid.

4) Sú innflutta molld sie vel mulin, upphrærd, og fullkomlega so diúp edr hátt uppborin, sem i fyrstu var sagt at úte plægiaz skyllde.

5) Gáng-rúm sie eptir midiu gólfe kál-hússins ellegar i kríngum allt gólfid med veggiunum, enn

være hitt helldr giört, þá skulu so sem beckir eda bönd liggia þver-höud frá vegginum, mun lægra enn hæd kálsins er, at þat stydiez þar vid umhverfis, enn ei vid torf hladid, og at loptid eda súgrinn gete farid allt um kríng þat sem innsett verdr.

6) Nær sett er, skal riúfa jardveginn med hendinne, og setia rótina nidr i giána so diúpt, sem ádr stód hún úte, og láta sem minst rætlingana af lagaz, þiappa sídan mollduinne at stofninum þegar búid er, og siá til, at limid ei brotne, enn fare nockurt blad, þá er betra þat med knífe af at nema, helldr enn at rífa þat burt.

7) Þat stærra kál setiez i einne röd, og þá hid lægra þar næst, aptr þat hærra, og skal so rada allt af, þvi med þessu móte fær loptid betre far-veg innan um sialfa reitina.

8) Se so, at of miklir þurkar hafe gengid, þá má vökva litid reitinn, ádr enn innsett er, enn alldrei skal sídan vökva.

9) Eptir þat búid er at setia, skal húsid enn opid standa nockra daga, sie gód vedrátt og úrkomulaust til þess kálid veniez vid jördina, og take vid vexte helst þat smærra, þar eptir má opid byrgia sitt hvörn dag, fyrst mót nordre og austri, þar til ei er eptir nema gluggar og dyr móte sudre og vestre, og má so standa lánga hríd, sie urkomulaust; þá er aptr látin nedre hurd á gaflinum, enn sú efre standi opin. Best er alltíd, at þær rettu dyr horfe á móte sólu.

10) Þótt litill regn vindr kunne at koma, og stroka inn, ef jördin er annars þurr, þá skadar

 ecke,

ecke, eins þótt frost kóf være nockud látid innsiúka, kríngum rætunnar, og byrgt fyrir i tíma.

11) Súgr er ei innsettu kále gódr, helldr frialst lopt, eda blástr, sem kemr úr vídu ope, þó so at ei of þurkiz; þess vegna skal fyrir innann vindavgun hlera hafa, sem stydiez vid kál-baundin, og verda þav laka þver-hönd burt frá opinu. Saumu skynsemdir eru til þess at byrgia aull hol, nema mæne lióraun, þá stormar ganga, at ei skræme kálid i þerrum, eda vatn inn kome i mikille úrkomu. Eckert skran, og síst þat sem nockurn davn af ser gefur, eda gefa kann, skyllde sett vera til geymslu i þetta hús, nema máskee, at gards-yrkiu ambod þurr og hrein være langd langs med eptir bitunnum útundir.

13) Sie ærid rúm á húss-gólfinu, þegar hid nyta krull-kál er inn komid, þá fylliz þat af þvi besta snid-kále og rófna-kále i jörd, ellegar þess lifande rótum, hafe stofnar ádr afskornir verid.

14) Nær húsid er nú so búid, þá skal þat standa, og ei á kálinu takaz fyrr enn allt er eydt, sem úte stendr, sídan þegar á er tekid, skal atgæta þær veikustu kál eykur, sem annad hvórt blaudin eru farin at fölna á, eda snik af ser at gefa, og skera þær upp fyrst til matar, og helst upprœta, sie jördin þyd, eins ef vatnid skyllde ein hvörs stadar á kálid koma og þar standa, þá at hræra vid þvi, at nidr i gólfid renne. Fare nockr búskr eda blettr at blikna, eda minsta mygla þar á merkiz, þá skal þar strax riódur i giöra, annars má fyrst eyda kálinu til beggia enda hússins, enn láta lengst i midiu kyrt vera.

15) Allt

15) Allt tímganar kál edr adrar innsettar urtir, sem ætladar eru til frió-tekiu at sumre-komanda, þá skulu standa út af, fyre sig.

16) Þá vorid er komid, og fyrst verdr fyre froste tilkomiz, enn mestu hretin eru úte, þá má þak allt af húsinu riúfa, fyrst á móte sudre, sídan nordre, þó ei fyrr enn nætur frostin eru farin, og láta sá úte lopt og sól alla tostina. Ef þetta þykir ópryddka, þá skal hafa þak-ravstirnar, eda avka gluggana, þvi stærre og fleire, og láta alla opna standa á sumrum, so húsid innan bláse, og gólfid fáe regn og snió, eins fullt og være þat þaklavst. Nú þó frost lítill snióv, kynne á vorin inn koma, ádr tæmt er húsid, þá skadar hvórke kál ne tímganar-urtir. Þat einasta skulu menn atgæta, at opna ei allt i senn, helldr smám-saman, eins og byrgt var, og sídan fara at riúfa.

17) Nær tóstin er aleydd, og útsett til vaxtar hvad setiaz á, þá er uppstúngid allt gólfid, og hin atkomna molld útborin, er hún gódr áburdr fyre gard eda tún-berinr, enn á havstin skal jafnan nya jörd innbera, til at setia vetrar-kál i, bæde til at hafa jafnan nya jörd, og at ormar, sem vextinum kunna skadlegir at vera, fáe ei rúm til at búa þær um sig og fiólga.

## §. 44. Um annad betra Kál-hús.

Nú er enn betre máte til at giöra kál-hialla, sem avdugir höfdingiar kynnu at brúka, til at fá gard-yrkiu til hinnar mestu fullkomnunar sem avdid yrde her á lande, enn þat er at byggia svipad inne-

frævanar húsum annara sídradra þióda fyre sunnan oss.

Höfud=mátinn er sá, at snúa hlidvegge vid sudre, og hafe þar dyr i midiu, lióra á mæni, sem greint var, og tvenna vída glugga hátt og lagt med renne=lokum, eda hlerum fyrer á þilinnum til beggia enda; ekkert óp sie nordr á húsinu, nema vind=avgu tvö á þeim hlid=vegge, sem byrgd vere nema á sumrum. Sydre hlid=veggr má allr vera af timbre, med vídum gler=gluggum bádumegin dyra, og hlerum þar fyrir utan. Vidlíka má hafa gler=glugga til at setia i þak=ravfirnar, er nefndar vóru sunnann til, og skal alla slíka gler=glugga helst brúka á vorin, þá eydt er innsettu káli, enn nædingar gánga, þó sólar neyte; þá fá bæde ræturnar varma og líf, og líka má þar inne valla giöra, langs med nyrdra hlid=vegge, gegn sól=skininu, og setia þar á sád=arkir suemmindis, þá daga sem kalt er úte enn þó biart. Marga fleire henteseme mætte af slíku húse hafa, til frama gard=yrkiunne, enn nær sumarid er komid, og alldin út=sett, þá eru teknir úr gler=gluggar, og allt sett opid og öndverdt, so toptin og gard=molldin vidriz.

# Tiunde Kapitule.

## §. 45. Um Gard=frævá lestr.

Vilie kál=bóndin heim=alid fræ fá, þá lætr hann at havstie bestu stangir eptir vera, ei sakar til, þó nedre blaudin hafe skorin verid, nema betra sie; enn

enn aull má nema þaug af um haustid, so eptir standе niólin, sem heitir kál-stockr. Þessa nióla tekr urta-gards madr upp med rótum, og setr þá i molld undir gard-vegginn, hvar snió leggr yfir, og jafnvel ber hann siálfr at; geymaz so kál-stockarnir fríóvir allt til vors. Slíkar vetrar urtir og rætr med stofnum sá nú nyt líf, tekr bóndinn þær upp og gródr-setr i ein hvórium reit serilage, kallaz þær sídan frió-mædur, berande fyrst gult blóm. Þegar frió-mædur verda háfar, standaz þær ei vedr, þar fyre skal styttu vid þær setia; þat eru spítur stúngnar ofan i reitin, tveggia álna lángar edr meir, og binda lausléga med miósum vídir-tágum edr þurkudum murn leggium.

Fræ-tekiu-sagan er þesse: úr hiarta-blaudunum vex leggr, og upp úr hónum toppurinn, med sínum blóm-knauppum og smá-blaudum. Ur blóm-knauppunum kemr blómid med sínu búe, og þegar þat er allt burtfallid, steudr eptir kven-staungullinn med ávextinum, eda frió-hyldum undir ser, er á kále verda, sem aflangir vidbiúgir belgir, med tvísettre fræva ródinne, er þess audsærre verdr, sem þaug meira vaxa, af því at belgirnir þeniaz út, so at markar fyre hvórin korne. Nær þessar fræ-hylldir taka at trenaz og blikna, þá eru so roskuud fræin, at ei er betra von at því sinne, og lídr ei lángt ádr belgrinn opnar sig ytst og synir sína medal-girdingu, med nockrum fræum, komnum á fremsta hlutin, og falla þaug innan stundar ofan i jördina. Þetta frió er þat allra besta til útsáds, og kallaz her fruuns, þó ordid gleymt sie, edr tekid i illre og heimskulegre meiningu, sem því betur farinn er at afrækiaz.

## §. 46. Um sid = rostnad fræ.

Nú kann so kalt sumar at koma og vott haust, at ei rosknis fyllelega frióid, þó fengid hafe fullann vöxt, þvi þat er enn græn-leitt, enn á þó at vera döckt i ravdt á kále, þá skal þat samt ei ónyta, helldr skera frió = mædurnar upp, og safna i bindine, edr, (hvad enn þá betra er) taka þær upp med rótum, hrista molld af og draga upp á hamp = tígla, sem um henge = kál var kent, hengia so á rótunum hátt up i vind = húsum eda hiaullum hvar ei rignir, nie of freklega skeks, þvi verda kann at frió = mædurnar felle fræ med þvi móte: skulu menn þvi at tímanum gá, og ofan taka, þar fás kynne nytelegt fræ med þessu móte, þó ei med besta slag, þvi optast hittas nockr brún, á medal hinna grænu: vid tempradann ofn = hita má skerpa þurkin, og líse sídan fræ = hiartad, þá vaknar þat vid frió= virt og jardar deigiu.

## §. 47. Um sialfann Fræva lestrinn.

Nær frió = mædurnar gefa full = rostnad fræ, þá er þat döck = ravd = brúnt korn. Þær skal skera upp hóglega, so ei skekis belgirnir ne falle fræid, binda ofar enn um midiann nióla, i bindine, og leggia nidr á harda húd, edr i þurrann hreinann sá, so at nidr á se topprinn, bera sídan bindinin inn, og fara strax at þreskia, hvad skie verdr med hægd og þolin mæde; taka skal nockrar stángir um sinn, leggia efra hlutinn i stórt trog, slá þar á med spítu, þó ei so hart at kremies kornin, taka sídan þann vöndul i hönd sier, og slá nidr vid trogid. Eftir þetta skal stángirnar ísundr taka og atgæta, hvórn topp hvört belgirnir eru obrostnir, skal þá hina stóru volka

lítt,

lítt, á millum tveggia fíngra, og losaz þeir þá sundr, enn hinum smán græn=leitu má sleppa, sem avdsiá=anlega eru ei full=þroska: her eptir er fræinu saman safnad, vinsad og hreinsad.

## §. 48. Um Varúd, sem hafa þarf vid Fræva safn og geymslu.

Ecke er full=þurt fræ, þótt alroskinad sie, þvi skal þurka þat vid bláslr útbreidt i troge, enn láte ei sól á skína. Hin stóru fræin eru giarnan vessa meire enn þav smáu, og hlióta langsamlega enn ei ákast at þurkaz. Med þvi snarpir þerrar ganga siálldan á havstin, enn uggvænt at fræin aull sieu trygg, þá er varlegra, at bæta þeim til med tem=prudum elld=il edr ofns hita. Þetta frió=korn er ei at yggia, þat þolir betr Isslendskt vedrlag enn þat útlendska. Þat er avdrádid, at velia skal til fræ=tekiunnar þurt, stillt og gott vedr, og sæta bú=menn utanlands til þess minkanda túngli. Rádlegra er, hvörium gard=yrkiu manne nockud útlendskt fræ at hafa vid höndina, þótt hann hafe bæde lag og luckn íslendskt fræ at fánga, þvi þat kostar lítid sem ár=lega þar af þarf.

# Elfte Kapitule.

## §. 49. Um Verme = bed.

Undir þeim vegge i gardinum, sem skylir á móte avstan og nordan vindum, skal langs med undir standum gróf gióra, ei breidare enn hálfrar annarar

annarar og mest tveggia álna, so lánga sem hvörium þöcknaz, og hlada upp innan til, so ei take sú gyllding frá breidd grafarinnar. Ef grund-völlr veggarins er nógu diúpt lagdr, þá þarf ecke þeim megin at hlada. Nær jafn hátt er komid gólfinu, þá skal stodir nidr setia i backann kríngum gröfina, og innan til fialir á negla, so at kista þesse sie mót sudre vel álnar há, enn inn at veggnum hálfs fótar hærre. Eptir þetta er tekid nytt og óblandid hrossa-tad innan úr havginum, sigid, og i þurrara lage, borid i gröfina, og vel trodid nidr, fyrst áluar þyckt lag, sidan hellt i nockrum vats-fautum, sem svare stærd grafarinnar. Vatnid sigr, og madr fyllir so lenge gröfina af vel-trodinne hesta-myke, at ei er eptir meir enn hálf alin, þar ofan á er lagt lag af gamallre og fúinne hesta-mykiu hálfs qvartels þyckt, at Islands mále (þvi hitt málid sie frekara, og má vera Sælands mál) aptr verdr nockrum vats-fautum hellt i gröfina, byrgt sidan opid med baste eda mel-dynu, og látid kyrt vera nockra daga, þar til mykian fer aull at hitna. Þetta starf skal byria á útmánudum, og siá til, at búid verde i góe-lok, sie þá loptid tekid til at hlyna: enn merkiz ei mykinde, má hinkra vid at tedia gröfina, til þess vorbatin kemr, þá skal til reidu ræktar jörd af gódre molld til helsinga, blanda þar vid tre-sage, ei þó meir enn til fiórdúnga, hræra sidan allt vel saman, eltaz og bera so lagid ofan á vel tveggia þver-handa þyckt, skal jafna þat ofan og hallaz láta i móte sudre, eptir þvi sem gröfin eda ungiördin var ádr látin misshá vera. Nú skyllde so ástandaz at full yrde gröfinn eda kistan, þegar hid seinasta lag er komid; enn þó skal hafa barma ofan á, eda stocka, eins fets þyckva, so eptir þat búid er at sá, þá

mætte

mætte hver-spítur leggia yfir um, og hálm eda mel-dynur þar yfir breida, til skióls vid fræid.

§. 50. Hvar til Vermebedr duge.

J verme-bed þennann má sá allslags vandlátu og óvandlátu fræ, helst þvi fyrra, so sem legg-blóms-kále, ravdum og gulum gard-murum, snemm-grónu salate, hvítu hǒfda-kále etc. má sá eins og sagt var um fræva reit; nema menn ætle ser ei at planta, þá skal gisid setia, korn fyre korn. Enn skule gródr-setia sídan, þá verdr annann verme-bed til at hafa, nema hitinn sie ærinn kominn, og er þá plantad i vel mykie borna góda jǒrd. Þeir sem betre efne hafa, láta giǒra þar til gler-hurdir, eda nyta til þess gamla glugga, sem eins verda yfir at liggia i sólskine, ef loftid er svalt, enn eru látnar yfir tre hurdir eda nefndar dynur, þá hrídir og nátt-kulldar ganga.

# Tolfte Kapitule.

## §. 51. Um Gard-murur.

Gard-murur vóru ádr nefndar gular rætur og ravdar, sem Danir kalla beder, og ádrer carot-tur, þær eru hardla smeck-gódar, þær seinne eru sierlega lystugar, hinar fyrre sykr sætar. Þessar rætur hafa sprottid her á lande, og þó lítinn vǒxt fengid, enn eg efaz ei um þær gete stærre ordid, þær vilia ei so miǒg goda jǒrd hafa, þvi vid mikla mykiu verda þær verr smackande, og hætt vid, at ormar i þær kome. Hvar kál hefr vaxid árid fyrir, þar

þar má setia þær i lavsa, diúpt stúngna og vel myllda jörd, med einum saman fyrra árs áburde, þó nockud sand-blendinn sie sakar ei, enn andsælis skal reitrinn liggia, og nógann hita hafa.

## §. 52. Um Næpna- og Rófna-jörd.

Þær vilia góda jörd, enn ei miög nykiu borna, og má sá þeim, hvar kál stód árid fyrir. Þó molldin sie lítt sand-blendin, sakar ei stórum. Næpur hafa vaxid her á lande stórar, 5, 6 til 8 marka þyngdar, og þær hvíta rófur hygg eg hvörge betr komnar, enn einstadar i þessu plátse. Vaxid hafa her allra stærstar i svartre ofræktar jörd, nálægt kúa mykiu havgum. Utanlands er þeim sád so dreift i fyrstu, sem vera skylldu vid gródr-setning, vídast hvar settar korn fyre korn, enn her um pláts hafa þær plantadar verid sem annad úng-kál, og alltíd vel-tekiz.

Nær grasid er vaxid hálfs fótar hátt, þá er þat ofan af þeim skorid, ei nær enn fingurs breidd frá stofninum, og má nyta til matar, hin sliettu blaudin, sem þyck og vessa-rík eru eins og kál, enn þav sem aurdnuar hafa, eru þúrr og maugur. Stundum verdr at skera blaudin tvisvar eda þrisvar á sumre, þvi ótt vex, sie þat ei giört, vex alldinid i nióla, enn rótin trienaz. Þá er næpunum þríst nidr med hendinne eda fætinum, hvörre fyre sig, sem at verdr komiz, þvi at troda allann reitinn, sem nockrir brúka, þat er af þvi skadlegt, at molldin á mille kólfanna tredz líka sem verda vill. Þegar þær vaxa upp úr jördinne aptr, þá skal lavsre molld yfir og utan at þeim sópa jafnódum, at ei ligge þær avdar fyre sól og vedre, sist rófur þær er ytst standa,

at

at ei fáe þær ſlæmann bórk hardann og grænleitann. A haustin er allt upp=tekid, og annad hvórt ofan i jórd grafid, i davulausum úte húsum, med molldar laugum i mille, so diúpt at ei grande frost; ellegar alldinid er inne, i stórum kerum, i þurre molld eda sande geymt, og má þó ei nær hita vera. Smærre næpur og rófur má heingia upp, sem sagt var um hángid kál, hátt i hreinlegum úte húsum, raka= og þerri=lausum, og hafa sídan til matar á vetrum. Sie mikil nægd af þessum kólsum, þá eru þær bæde molld orpnir og hengdir besta miólkur=fódr kúa, nær þeir eru sodnir og saxadir. At vore springa þær efstu rætur giarnan út i jórdinne.

## §. 53. Um Rum fyre Næpur og Rófur.

Fyre næpur og rófur skal sierilage hegndann akr hafa, þvi þat alldin vill frekt rúm, ef vel luckaz, einn edr og halfan annann fót á mille hvórs kólss, enda er þat ómaks vert, at hafa nógann forda af nytsómum ávexte: hvad haglegt være ei at giöra mikla miólk og góda úr þeim stórgerdustu og laukustu næpum, med þvi at gefa þær til kúnum, einkum i sió=plátsum, þar kyr annars verda segnar fiske=beinum, og selia þar syre miólk misjafna og óvaunum illa smackande.

## §. 54. Um Fræ=tekiu af Næpum.

Menn skulu velia hinar bestu til tímganar, og setia þær ut i serilage reit, til at giöra frió=mædur af, og þarf stytur vid at setia, nær nióiarnir verda ofhár, at ei sláiz um koll af vedre. Bland skal og skera af leggiunum smámsaman, sem af tímganar kále. Med þetta lag hafa næpur her fræ getid, þær sem

sem af þvi fræe aptr komu, vóru þat ár bestar at vøxtum og þolldu havst = kullda og frost betr enn hinar adrar.

## §. 55. Um Ill=yrme, sem Urta=gørdum spillir.

Kál, næpur og rófur ásækiaz her opt af þeim væng=hulstr=ormum, er her nefnaz siga=keppir, og eru á medal tenebriones hinna nyrre Physicorum. Þeir eru svartir at lit, svalir og fram=miovir; svipadir annars jarn=smidum. Þessir óvinir eta blaudin, helst þaug fyrstu, sem lágt eru vid jørdina, enn úr þvi þaug fara úpp at rísa ná þeir ecke til, þvi þeir eru bæde seinir og þúngir. Her vid má reyna á kvølld=tíma, (þvi um hæstann dag siáz þeir ógiarnan) at dusta yfir reitinn þurkudu mølldu sóte, ellegar og vøkva nockud med sót=vatne, sem flestum ormum er vidbiódslegt.

# Þrettande Kapitule.

## §. 56. Um Pipar = rót.

Pipar=rót, sem Þydskir kalla kreen eda mar=hredku, vill vaxa á deigu lág=lende garda, hvar jørdin er svørt og lavs, enn hafa snemma havstid ádr áborin verid mykia sú, sem stutt er i ordid o g grund=vøllrinn ádr uppstúngiun. Til þessa ávaxtar sáiz svart fræ, annars má af rótinne tímgaz med þvi móte, at hún er i maurg stycke sundr skorin þvert um, so at eitt avga sie á hvørium bita, þeir setiaz

setiaz nidr at vore, eptir tavm-hurde, nær til þriggia fíngra breiddar diúpt, med freks qvartils mille bile, vex þar upp af mikil eik, og rótin ei minne nidr af, sem ei hefir þann retta smeck á sumrum, ne brúkaz þá til matar, helldr á havst, vetr, og vor. Hún geymiz grafin i ferskre molldinne, enn þólir annars vel vetrar kullda. Mar-hredka nefniz og ein vetrar-hredka, hvór ólík er pipar-rót.

## §. 57. Um Sillara.

Sillare eda peturseliu-bródir er ávaxtar rót, og hefr vaxid her á lande, hún er tvenn-slags, og misjafn miög; Aunnur brúkaz meir til lækninga, hefir grænleita rót, og er snaurp og haurd, súr-smackande med döck-grænu fræe. Hin sem til matar er haufd, er hvít-leit, og gefr liósa miúka og vel-smackande rót, miög so bóllótta, af liós-grænu smáu fræe. Sillarinn er af uppruna lángt at komin, peturselia frá Macedonum, þó henne miög ólík ordin, enn af þvi hún er oss holl og gód, þá mætte hana rækta i verme-bedium, og sídan úr bedíunum gródr-setia i gódre deigre, med forne stuttre mykiu vel gædde molld, i gröfum edr ardr-faurum, eins fets diúpt, og hálfs fets i mille hvörs gródr-setnings. Forarnar hafe i millum sín edr urtanna góda Íslend-ska alin. Adr plantad er, skal skera lítt nedan af rótunum, og eins þat lavsa grasid ofan af, þó so at hiartanu sie óskadt. Sillarinn skal optar vökvaz, enn ádr talin alldine, bæde um sumarid eptir þat buid er at planta hana, og líka i bedinnum; og fræid ádr enn sád er, skal hafa legid einn dag i volgu vatne, þvi at þat liggr giarnan nidre 4 vikur eda lengr. Reynt er þeirra þyckvu krull-blada i midiu, enn þó mest rótarinnar, bæde sod-

D inuar

innar og hrárrar, hvǒr eins og salat er framborin. Hægann vetrar kullda þolir sillarin úte, sieu trie spœnir eda smá-fialir yfir stofuin lagdar, og mykiu borinn reitrinn, annars geymiz hún óhulltast inne i þurrum sande og davnlavsu lopte.

## §. 58. Um Gurkur.

Gurkur skulu hafa vid-líka fóstur, verme-bed og so plauntunar jǒrd: Þær eru ofan jardar-ávǒxtr, brúkadr sem lyst-urt, tilreiddr meir til sælgætis enn fædis, meinaz her þær litlu gurkur, sem Danir kalla agurker. Fræinu má sá þriggia vetra, og skal þat hafa legid ádr vel sólar hríng i regn-vatne, og sie þvi kastad sem ei sǒckr.

# Fiortande Kapitule.

## §. 59. Um Jard-eple.

Jard-eple nefnaz þavg hnǒtótttu ærle, sem af sumum jurtum nidre i jǒrdinne vaxa, maurg af einu útsáds stycke, og hafa mióvar tavgir i mille sín i molldinne, hvar næringar-vessinn rennr, og skiptiz út til vaxtarins, her fyrer eiga þesse eple sæte hia fiǒl-ærludum rótum, (Radicibus tuberosis). Þavg eru tveun-slags, nefnelega þav stóru, sem heita Jakobs eple, med hvítre himnu umgefin, og hin sem Þydskir menn kalla Tartufflur, enn Spanskir Pottatur, dǒck fagur-ravdar utan á, og þat er þesse species, sem mest skal um ræda. At sǒnnu finnaz á medal þeirra ravd-himnudu nockur sábreytin eple, hvít utan á, lítil og alltíd hnǒtt-ótt,

étt, sem eru miög svipud ásyndar slysiudum kastanium, enn at smecknum allt eins og hin, og allt eins gras vex upp af þeim, syniz því ei annad vera, enn lítil variatio af þeim, eda mismunnan.

## §. 60. Um Jakobs-eple serílage:

Jakobs eple verda sem gylldr karlmans hnese, og þar yfir, þaug taka á móte betre jörd enn hin jard-eplin, og eiga at sáz i þann akr, sem hvíldiz árid fyrer, er vel taddr, eda nockru betr vid þann mun enn hann skyllde annars verid hafa. Akrinn skal diúpt og tvísvar plægaz, gard-molldin lavs og mulin verda, ádr enn smá eplum er sád i plóg-farid, stórum sem hænu egge, eda þeim stóru sundr-skornum i 4, 6 til 8 parta, eins og þaug mikil eru, og ærla avgun maurg til; hálfs annars qvarils skal lángt vera bilid i mille þeirra, á alla vega, og ei skulu þaug hafa meira diúp enn svare fets helsinge. Tvó eda mest þriú sumur á þeim at sá, i sama stad; stinna, þó vodfellda tre-qvísl, eda járn-gaffal þríteutann verdr at hafa til at taka þaug upp, og frá tæginnum slíta. Jakobs-epla nytsemd og tilreidsla, er sama, sem hinna ravdu ærla, og eru þesse stór-gerdu míklu driúgare i stórum búskap.

## §. 61. Um þav smærre Jard-eple Pottatur eda Tartufflur.

Lesarinn má ei villaz um þat, at jard-ærla kyn eru hiá náttúru riturum, þeim um búskap höndla ymislega nefnd, og eins nafn audru lánad; Til dæmis: at lærdir Menn heita þav Solana og

Convolvulos. Pottatu-nafuid verdr einnin gefid hinum stóru lavngu jard-ærlum, hvór til Irlands eru komin, og brúka þavg hellst Nordr-Irar fyrir mesta og besta fæde. Þesse Convolvulus hefir sykr-sætaun smeck, og finz bæde i Avstr-Indium og i Sudr-Amerika, þvi nefniz hann og Sisarum Peruvianum. Vor ravdu eple hafa likaun smeck sodnum castanium, og svipad er þeim Jakobs eplid. Variatio á medal þeirra ravdu, sem hvit og bóllótt er, kallaz Jard-hnotir á Þydskalande. Jard-pernnafnid vixlaz og þar vidr. Nú vilium vier ei skipta oss af andrum naufnum edr tegundum Convolvulorum, helldr enn einúngis Jakobs Eplunum og vorum Ravdhimnudu Eplum, sem med oss vaxa, og her á lande ymist kallaz eptir Spanskre eda Þiódverskre túngu Pottatur eda Tartufflur, enn vier vilium þavg einúngis her Jard-eple nefna, og enn leggia þeim til ein-kunnar, at þavg hafa hiartamyndud leggblaud, dóckgræn, miög so kringlótt fyrst þá uppkoma. Þavg eru liósleit nedan undir af lodnu, sem á þeim er; á legginum verdr sú lodna stirdare og gisnare; blómid er gult.

## §. 62. Jard-epla Jörd.

Iördin skal vera svaurt i megra lage, þurr og heit blaundud stein-sande, liggiande i hall-lende, móte sólu, enn gott hlie fyre nordan vinde og landnyrdingum. Molldin upp-pæld ei minna, enn til þriggia fóta dyptar, lavs og velbariu. Gáng-rúm skulu vera so vel mege tilná, og reinirnar skiptar i smáa hrygge jafnsídis, hvórier liggia upp og nidr, eda frá nordre til sudurs.

## §. 63. Almennaste Sád-máte Jard-epla.

Taka skal madr stavt hálfrar álnar langann, addreginn nidr eptir, þó ei miórre, enn at útsáds eple komiz fyrer, i fare hans, og sie markadr af til 4ra þumlúnga, þvi at so diúpt skal hónum nidr stínga, og sá eplunum. Lengd hans skal vera mille-bil hvórrar holu, og þetta allt ámælt at vera med tavmburdc. Sieu útsáds eple smá, og vorid kalt, þá skal setia bæde grynnra og so þiettara, þvi at þat er nú reynt, at þvi smærre sem þavg eru, fyrir innan midlúngs stærd, þess lengr liggia þavg nidre, enn ei er þórf at sá þeim heilum stærre enn i medal-lage: sieu þavg stærre, þá má sundr-skera, so at avgat stande otæpt, og avga tavgirnar nógu diúpt á hvóriu stycke.

## §. 64. Um Nidre-legu Tinann.

Optast lída 3 eda 4 vikur, til þess epla grasid siez, enn stundum ei meir enn hálfr mánadr, og er þat ei so gott teikn, helst ef at snemma sáiz, þvi jurtin kann allt at leggia til leggsins, enn eckert til æxlauna. Nú koma þavg optast brádum upp, sie sád i of-feitum akre, og eins ef þavg vóru ádr útsprúngin, so hinar úngu greinir snúa upp i holuna; hvór illa tilbyrgd var, þvi er varúdar verdt, at láta hana ecke opna standa, samt skal ei troda i hana molldinne, helldr láta lavsa inn falla sem vill; i lengra lage liggr nidre fim vikur. Sumarid 1761 komu her sum ei upp, fyrr enn at 6 vikum lidnum, og sum þó nockrum daugum sídar.

## §. 65. Um Lyptinguna og adra ræktan Jard-epla.

Nær urtin er varin hálfs fótar há, plaga menn at upp-hæcka jördina, sem ræturnar eru i fastar, med mióſum ſpada, ſo diúpt og lempelega, at hvörke rugliz hennar róta ſtada ne þeirra nálægu, og þetta kallaz at lypta, hvar vid alldinid fær ſo ſem nytt líf og loft, þvi at molldin loſnar, og hinir úngu ædla víſar, ſá ærid rúm til at vaxa. Akrinn verdr eptir þetta haudtak allr med ſmá hrúgum, og vill molldin þar giarnan breſta; þvi verdr tijl at ſiá, at ei ſie opid hol eda ſprúnga, hvörke þar ſpadinn er út-dregin, ne ofan á hrugunum: plaga náqvæmir akr-karlar, einkum ef girdid er lítid, at fara höndum um þær hrúgur, og jafnvel þiappa litid med tveimur fíngrum, at ſtofne hvörtar urtar, at ei gagntakiz hún af ſólu og vinde, ne helldr gape ſprúngurnar. Sie milldt vedr og mollur án ſólar, þarf ei þeſſa varfærne at brúka, þvi at innan ſkams lykz molldin af ſiálfre ſier. Mockrir lypta alldrei, helldr láta ſiálft ſitia yfir ſier, nær molldin er aunars nógu laus, og var fyrſt i hrygge borin, og eplin þar i ſett, enn akrinn þurr, þvi at vid lypíngunna þornar landid, enn til þeſs, at þaug eplin, ſem efſt vaxa fáe nóga jörd, og vaxe ei upp ur, ſem tídum ſkiedr, þá bera ſumir molld ofan á, umhverfis hvörn ſtofn, til þeſs graſid ſer nær i kaf. Nú þó þeſſe atferd ſie góð, ſo lángt ſem hún nær, þá er þó hin fyrſta betre, má ſamt taka þat af þeſſare, at nær búid er at lypta, þá ſie ſáid molld yfir allar hrúgurnar. Einfaulldust er ſú atferd, at bera fyrſt molldina upp i háſa reite, og ſetia þar i jard-eplin, enn ſleppa

sleppa þá hryggja giörðinne, síðan þá grasið er nóg vaxið, má lypta, enn þó giöra þat vandlega. Við hryggja-reitina er þat sierlegt gagn, sem ei fæz annars, at i vætu rennur betr vatnið frá eplunum, sem at audru lage yrðe þeim skadlegt, so þaug kynnu i lángvarande hlyu vedre at fúna i jörðinne. At vana grasið tídka sumir menn, eins og með næpur er farið, og bera síðan molld ofan á, enn reynslan hefir sýnt, at þat vex þvi skiótar upp aptr, og tæmir eplin. Þat hefir og reynslan kent mönnum her á lande, at þvi meir grasið vex eptir þat eplin eru komin, þá þroskaz þaug þvi betr, eptir til taulu, so at, nær madr gengr um akrinn, og vill hin bestu epla lesa sem fliótast, annað hvört til sýnis, at nióśna um vöxtinn, eda til brádrar brúkunar, bregz hönum sialdnar, at hvar grasið er mest, þar sieu stærst æxlin undir, nema være ofræktar jörð, grúnnsád, og eingin eple komin. Sie akrinn þurr og sendinn, og gánge þurkar, þá hefir reynslan kent, at betra er at smávökva hann fyrir há-degið, annann eda þridia hvörn dag, ef sólskin er gladt. Samt skal alldrei so mikið vökva, at hann gagn-blotne, helldr sáe litla deigiu, og þó ei nema jörðin sie farin at springa; sierdeilis á þetta við hvar savd-atads mylsna er ofan yfir borin, þvi at við þat, at hún með sínu eiginlegu edle og litar sorta eykr hitan við skelia-sandin, þá verdr þægeleg tempran af vats-drifinu, sem bæde deigir hið svarta lag, og leitar i gegnum sprúngurnar ofan i sandinn, deigir hann, og lika bætir varmann.

## §. 66. Fleire Epla-molldir.

Hin rauda-jörð á sierlega vel við þetta alldin, og vegna þess hefir betr sprottið syðra, hvar soddan

jörd er, helldr enn i audru jardar-lage. Enn sá óveniulege vöxtr, er þavg i Gaurdum á Alstaneſe fengid hafa, kemr enn nú af nyrre hiá-orſök, og er ſu ſtærd ei andruvíſe á at líta, enn at þar ſie nockr eple i eitt ſaman vaxin, þvi hvar hin ſtærſtu fram-koma, þá eru þeim mun færre enn vid ádra ſtofna; avk þeſs eru hin miög ſtóru eplin ytrid ſá, og aull helldr aflaung, enn þav ſmærre, ſo ſem beſdu nockur af þeim jafn-ſídis fædz og ſamanvaxid. Hvilikt-eple er ſvipad hrediu-ſteinum, (orrholitis). Nú er þat beſtr akr, ſem gefur fleſt, ſtærſt, og jafnſtór eple. Af þvi þat ſyndiz ecke ólíklegt, at þat ravda alldin ſinde nockud ſier líkt og ſamqvæmt i hinne ravdu molld, vóru her giördar tvær eptirfylgiande ravnir; i holta mó var tekinn ravdleitr avr, eda leír-flaga molld, ſem gras og ſvördr var ádr ofan á vaxid, hún var látin þorna nockud, ſídan mulin vel og blaundud tveimur þridiúngum ſaman vid feita ſvarta molld, lítid hvít-ſendna; her uxu eplin betr enn annars ſtadar, og betr enn i einne ſaman greindre avr-molld hinne ravdu. Aunnur ravn var ſú, at ſaſnad var ravdre mótorfs auſku, vid hana blandad lökum fiórdúnge ſvártrar molldar, og allt eins umbúid: her uxu eplin beſt, ſo ſiónar munr var, hvad þav vóru jafn-ſtærre enn þav næſtu. Allr arfe, eda hvörs lags ill-greſe ſem er, þá er jard-eplum óvin-veittr, og verdr koſtgæfelega med rótum upp at draga.

## §. 67. Um þeirra Leſtr.

Uppſkeran er beſt at verde tímalega, þó eptir árgánge, þvi eins og jard-eple elſka hita til frumvaxar, hætta þavg at vaxa, þegar ſumar-hítin þver.

hver. Þat má nærre þvi, hafa fyrir merke, at þegar jurtin ofan jardar er visnud og svaurt ordin, þá vaxa ecke eplin þadan af, nema grasid deye fyrer at komande hret, og vedráttan vilie til heit þar eptir. Nú er samt þetta alldin ei so vidqvæmt vid frost, sem menn halldid hafa, þvi at þó skiel frióse á akrinum, er samt ærlunum óhætt, nema þeim er þeirre skel ná edr upp úr vaxa, þá snió leggr ófan á, er enn sídr þaurf at óttaz. Teikn til at eplid sie frosid, er, sie þat illa litad, davsfe hinn ravde farvinn, lint fyre fingrum, item ef þat selr vætu nær kreist er. Vid epla-lestr er lítill vande, sie jördin lavs og urtin óvisin, þá má locka hana hægt upp, og hánga þá eplin vid, enn være grasid visnad, þá skal med reku upp taka og um hverfa hvórre hrúgu, þar eplin liggia lavs i molldinne, og þeirra ravde litr er frá henne at-greindr. Þó fyrre mátinn verde brúkadr, þá er samt betra at um-bylta á eptir, þvi at verda kann eptir eitt edr annad eple, þar tavgirnar eru so veikar, at ei geta halldid epla þúnganum, nær vöxtrinn er millill ordinn. Þar næst er tvíverk-nadar minst, undir eins og eplin eru lesin, at skilia þavg stærre frá til matar, enn hin minne til útsáds at áre komande. Þavg allra minstu skyllde þvi at eins nyta, at lítid være annars til útsáds, þvi þótt upp af þeim yxe, þá liggia þav bæde lenge nidre, og sumarid er so stutt her á Islande, at þavg gefa travdlega fullkominn edr midlúngs vöxt; samt skal þeim smæstu vandlega safna, og hafa heil og óflysiud til matar, hellst til at giöra musl af, sem hefir líking erta-gravtar, og er þó betre.

## §. 68. Um Jard-epla Geimslu á Vetrum.

At geymslu jard-eplanna um vetr, er ei stór vandhæfe, her hafa þav nidr látin i tunnur, med mille-laugum af þurrum hvítum sande, vel geymz inne i bæar húsum. Betre er stein-sandr til þess. Þavg meiga og geymaz i sinu eda myglu lavsu skrás-þurru heye, og er þó helldr uggvænt. Jlátin halldaz best, hvar hvörke er frost ne hite, nidre á gólfe. Þav jard-eple, sem her á lande varid hafa, eru ei so hiörtkiæl, sem þavg útlendsku, hvar um þat er til merkis, at eptir havstid 1760 komu 3 jard-eple upp um vorid úti i garde, hvar óvart höfdu gleymz, og af sier stadid vetrar-kulldann.

## §. 69. Um Jard-epla Ræktan annad ár.

At vore komanda þarf ádr jard-eplum sie sád, at tedia akrinn savda-tade ef hann stendr lágt, annars navta mykiu, og jafna vel saman. Þat er nú reynt bæde her og sydra, at hvar axle þesse best uxu sumarid fyrir, þar fæz miög lítill vöxtr sumarid eptir, ef jördin hefir ei bætt verid, og af þessu má siá, at þav draga sterklega til sín heinar næring, hvörs vegna þat er betra, sie rúmid annars nóg, at færa hanna ei meir, helldr tedia med kúa-mykiu og hvílaz láta, vex þar þá nógr arfe, hvörn af skyllde slá, ádr enn frævaz fer, og umbylta jard-veginum, so at mykian vid blandin jördina med soddan hætte verde hæfeleg til akurs annad ár, enn vilie bóndinn þar tún eda grasland giöra, þá má samt bera á molld og jafna, dreifa á mode eda gódum jurta-fræum. Hirdis

skreppa vex þar giarnan, og er heunar fræ avd feugid, enn grasid tímalega afslegid, og vel þurkad gott savda fódr. Sá sem i fyrstu byriar at sá hiá ser jard=eplum, hann útvege sier medal stór, so ei verde degeneratio, sieu þavg siná, enn jördin illa temprud, eins og opt hefir skied vid adrar jurtir og rætur úte i heime, þá settar vóru i nyu lopte; enn hellst kynne her af kulldanum koma knys mínkan. Betra er at fá jard=eple utanlands frá til útsáds, þeim er efne hafa. Þat fære betr ef þadan sendaz jard=eple híngat til lands, at þav være fyrst þurkud á vind=svaulu lopte undir þake, so út úr þeim sveitaz kynne sá mikle vesse, sem velldr því, at þav skióta ákast greinum á leidinne, sídan ættu þavg leggiaz i þiett ker, med þurrum stein=sande á mille, so at ei kome saman, og á ferdinne standa ei undir þilium nidre, helldr uppe fram á skipinu þar síst er i vege, og breida nockud yfir, so hvörke drífe siór á, ne sól verme. Annad medal kann gyllda um þennann hlut og annann, sem ei má varme at koma; þat er at koma sendingunni i qvartil edr annad lítid ilát, setia sídan i eitt stærra ker edr uxa=höfud, so á spelkum stande, allstadar jafnt frá því, hella sídan á sio, og láta á standa nockra daga fyrr enn af er hellt, og nyum á aptr. Ilátid má vel hellt vera, og öruggleg a skordad, því heitara sem vedrid er, því tídar skal siónum a skipta. Nær þavg eru til landsins komin, skal fordaz at láta þav vera i hita, þar til sád er, helldr láta þat hellda ker i vatne standa. Vorhitinn þrengir at sönnu nockud i gegnum vatnid, enn þó hneckiz hönum best med þessare atferd.

# Fimtande Kapitule.

## §. 70. Um Frió-mete, einkum Hullda-gróda.

Frió-mete kallaz allt sá matr, sem mann-kynid af ymislegum triá- og urta-fræum, sier til matar reidir, og er margs konar, einkum i avstr-álfu heims, enn eg meina hier twen-slags., er á Islande vara kynnu, korn og hullda-gróda. Allt þat frió-mete, sem vex i aflavngum belgium, og so stórt verdr, at mikill munr er at safna til átu, þat kalla þydverskir menn hullda gróda; þeir meina þar undir sierilage bavnir, ertir og ádrar slíkar tegundir, hvóriar Romveriar nefndu legumina. Þær alþektu stóru hvítu bavnir, er valskar avknefnaz, og ertir, þær i Tartanum standa, og alþydan ránglega bavnir nefnir, hafa reyndar verid til útsáds her á lande. Bavnirnar eru miklu stærre, enn ertir, þeim þó ólíkar, flatare vid, hafande nyrna mynd, at eg ætlar ei þurfe her um at villaz.

## §. 71. Um Bavnir.

Bavnir vilia medall feita, góda, miúka, svarta og vel lavsa jörd, i þeim akre, sem ligge vid sólu og friálsu lopte. Med vaxanda túngle ber at sá þeim á spannar bile. Menn hafa stavt þann er holur giöre, tweggia þumlúnga diúpar, og varpe þar i bavnunum. Vilie luckaz, þá vara þær vaulsku bæde fliótt og mikid, og vilie bondinn

grænar

grænar hafa, þá lætr hann þiettar i fyrstu, á tveggia eda þriggia þumlúnga bile, og grodr=setinn plautar þær sidan, sem ætlad er til frió=vaxtar, hinar verda grænar uppskornar til spads edr annara retta. Med þetta seinna lag hygg eg tvíl=lavst at luckaz mynde hiá oss. Bavnir gefa mikla næring fyrer hravsta menn, sem strita jafnan, enn i kyrr=setum eru þær ohentugar, sakir vind=gerdar og þurrar náttúru. Vid uppskurd og þreskíng bavna má hafa svipada atferd þeirre, sem kend verdr um ertir=her eptir.

## §. 72. Um Ertir.

Ertir, sem hingat flytiaz árlega má til útsáds hafa, nær stórar eru, vel litar, og óhruckadar, þat er ei of gamlar, en alldr þeirra vitum ver eigi, þó eru þær ei lengr gódar halldnar til útsáds, enn 3 ár. Þær skulu hvórke vera svart=blettadar ne madk=smognar, gott er at láta þær liggia i mykiu vatne eitt dægr fyrr enn sád være, hvad skie skal i stilltu vedre, sólskins lavsu, hellst nær avstan og vestan vindar ganga; akrinn á at hafa feita og varma jörd, hvórke vota ne þurra miög, vel stúngna, mullda og ádr taddа, sæmelega lavsa. Þær setiaz freklega hálfs þumlúngs diúpt, 2 eda 3 nálægt, og annars vel eins fótar bil á mille þeirra, er saman eru. Ef at plátsid er lítid, skal mióva stafe upp setia hiá hvórin tvinne, þriggia fóta lánga, og binda grasid þar vid med muru=tágum, so ei flækiz. Nær blómstrid er fyre laungu fallid, og bellgirnir eda hylldirnar hardar og blik=nadar ordnar, þá er staufunum uppkipt, og erta=grasid af slegid, eda dregid upp med rótum, látid so liggia saman flækt nockra daga, þar til allt er

þurt

þurt ordid, enn þar eptir er þat teckid heim og þreſkt, hvad avdvelldlega gengr, ef urtin er þornud.

## §. 73. Um Fleiraſlags Ertir.

Þeſſar alþecktar ertir eru þær hellſtu á medal akr-erta. Gráar ertir heyra hier til, og eru þær ſtærre enn þeſſar, eingvu ſídr hentugar vinnu fólke, og eg hygg þær príſiz ei ſídr hier á lande. Munſt er beſte rettr af þeim. Nockrar þiódir hafa giört af þeim miól og bravd, er þeim ſnemma ſád. Sykr-ertir eru hellſtar á medal gard-erta, og miſmuna aptr ſín á mille, þær hafa vaxid her á lande, einkum á Beſſa-ſtaudum. Sykur-ertir vaxa fliótt, og þiena til ſpads, ſtauppu etc.; meſt fyre ſælgæte meire manna, enn til ſmárra muna land-búinu.

## §. 74. Um ville Ertir.

Nú er enn eptir ein tegund af ertum, þat eru ville ertir, ſem vida ſpretta á Iſlande vid ſió-ſídu, þær miſmunna ei frá hinum, nema at vext-inum, þær ſpretta á gryttum jökul-ár eyrum, graſlavſum, á Sólheimaſande avſtr, i hvítum ſkelia-ſande vid Eyvindar fiörd i Stranda ſyſlu. Þat er þeſſe ſama ſpecies, ſem enſkir bændr i Oxafurdu herade lifdu vel á og framkomu hyſke ſínu i hall-ærinu 1555, þá adrir lands menn þeirra und-rudus, hvörnveg þeir hefdu kunnad lífe at hallda. Nú være oſs ómaks vert, at læra þennann ville vöxt i gaurdum at temia. Molldina ſkyllde velia, líka þeirra fóſtr-jörd, og gá at ſaumú vedr-ſtaudu, eins at aullu lands lage, og fara þar eptir ſem næſt

yrde,

yrde, sá sídan í nockurn reit. Allra vissast er, at útvega hnavsa med rótuuum i, hvóriar sifriósar eru, og setia þá heutuglega nidr, bera sig so smám-saman at mykia þeirra ville-náttúru, og villdu þær sídan, med betre rækt, taka vid meire vöxtum, enn ádr höfdu, þá være enn nú betra i efne, enn til þess þarf náqvæmann mann.

# Sextende Kapitule.

## §. 75. Um Melin.

Melr sem nyttr er avstr i Medallande, og útlendskir kalla ville-rúg og sand-hafra, hann vex allvída her á lande, verdr kiarninn alldrei full hardr, og bakaz þvi mel-kornin, til þess malad verde hiá þeim eystra, hafa þeir numid þetta af fedrum sínum frá fyrnsku, og múnu fornmenn hafa so farid med auxin, sem ei þornudu. Þá er vandlega þurkande, vilie menn fá korn til útsáds aptr. Jurt þesse hefir sívaxande lángar rætur, vid hinn nidr stígande rót-ar stofn med maurgum baurum, hvar af hann jafnan tímgaz, þó skorinn sie, og ei náe at fiölgaz af fræe. Hún er og gód at sá á flug-sanda, og vier skylldum víst reyna til vid nockra rækt og náqvæmne at gæda henne, so hún þroskadiz enn þá betr. Avstr i Skaft-ár-túngum, Medal-lande, Alfta-vere og á Sídu, safna menn árlega þessu korne, med stórre fyrir höfu, þvi hat vex gisid i vikur sande. Af liettum banggum á 40 hesta, bundnum i vöndla, so at auxin aull standa upp, fær bóndinn 1 miöl-tunnu, ef bærelega lætr, hann hefir siálfr aull Islendsk verk-

verk-sære, þreskir, bakar og malar, með haglega smíðuðum hravn-steins myllnum, þá kornið verðr næstra fínt, og miklu hveite-legra enn þat Danska miöl: Þat gefúr mikla næring, og sierlegann, þó gódann smeck hefir þat af bakstrinum, sem verkar þat at dryckiar deigið ósodið er ætt, þat kallaz Tísma. Korn getr víst vaxið á Íslande, ef ei vantaðe kunnáttu og ástundan, til merkis um þat eru þeir korn-akrar, sem her forðum verið hafa og vel sprottið, þó þeir hafe síðan aflagz með ymsum hætte. Þesse síðustú ár hefir korn fengið her fullann vöxt, ef menn hefðu vitað, at færa sier þat i nyt eins og Norðmenn giöra, þá illa árar, og Íslendskir við sitt ville-korn avstr á lande.

## §. 76. Um Spinat.

Spinat eðr rettara spinacka, so nefnd af því þornótta fræe, sem hún af sier gefur, og vex upp af. Hún hefir her vel vaxið næstliðin ár, og alldrei brugðiz, verðr stavngin þriggia fóta laung og þar yfir. Svarta góða jörð, hóflega raka vill hún hafa, með kúa mykiu temprada, og þótt hinn hvite skelia-sandr kome þar saman við, þá þyðiz hún hann, elskande hlie og sólar hita. Spinackan missmunar nockuð, og kallaz aunnr edla, hin ótigin: þó er hvör tveggia góð; fræið er miög hart, og skal því frióvirt hafa, hellst vatn þat, er hefir útdregið krapt eda lög úr savda tade, hvar i þat á at liggia og digna 12 stundir, þar eptir er því sáð i garðreit, og látið gisið vera, þriggia eda fiögra fíngra bil á mille, ofan á molldina, og síðan annari molld þar yfir dreist. Blaud jurtarinnar verða brúkuð i spað, og til ymiss kiöt-matar, enn sie nægd af henne,

henne, gefur hún i stauppu þann liúf-fengasta mat. Hana má saxada sem kál til grautar hafa, leggirnir styckiaz nidr i. Allir eru hennar rettir þægelegir kælande og temprande lífid, einkum fyre þá, sem hafa tregann og hardann vallgang.

## §. 77. Um Pastinacku.

Pastinacka nefniz af Þydskum hvít gard-mura; ef hún hefde her ádr vaxid, þá være hún úpptalin i sveit med alldin-rótum. Nú sökum hennar gæda, være vert at reyna, hvört hún vill ei spretta her á lande. Gard-pastinacka verdr tveggia álna há, med holum legg, og gulu blóme, sem ber lítid hnöttótt vid aflangt fræ. Rótin er hvít, bæde laung og digur, hún er sæt og krydd-smackande, gefur miög holla og liúfa næring fram yfir flest annad-rótar alldin. Hún brúkaz bæde siálf fyre sig, tilreidd med miólk, rióma eda smiöre, sem grautr eda stappa, at borda til kiöt-matar. Annars gefir hún allslags fædu gódann smeck, med henne sodin, so sem ymsum fisk- og kiöt-ætum. Rætur pastinauckunnar ... smuna nockud; þvi medal þeirra hittaz nockrar, sem eru digrar, miög kringlóttar og stuttar, nema sepinn nidr úr, og verda þessar miklu sætastar, hvar fyre þær nefnaz sykr-pastinack-rætur, jördin skal vera svört, gód, med gaumlu stuttu savda tade blandin, sem annars blautt og miúkt er temprud vel ordinne kúa-mykiu; best er at tedia havstid fyrir. Jördina skal at vore, strax og leysir, uppstinga diúpt, sem fyrir allt rótar-alldin, nær til tveggia álna, blanda vel og melia, og sá þar i þiett nockud, þvi kome hvört korn upp, má sídan júngurtir frá draga, at ræturnar hafe nóg rúm eptir, þvi ei þarf at planta, nema þær uppdregnu, ef so líkar. Vel skal

 vökva,

vöxva, helst i þurkum, og grasið annat slagið afskera. At havste eru ræturnar upptekuar, og i sande geymdar sem næpur; annars verda þær sætastar, sem blandadar þurre gard-molld eru úte geymdar, og þegar molldin hefir hulid þær, skal bera hrossa tad ofan yfir, taka sidan af eptir þaursum. Reyna má og at láta nockrar kyrrar standa, sasniz ei vatn at reitinum, hvört þær þá i sig drecka og fúna i því. Þetta alldin er best vel sodið.

# Siøtiande Kapitule.

## §. 78. Um Lavkana.

Lavka tegundir eru þriár, og misinunar þó i hvörre tegund, nefnelega hvítr lavkr og geirlavkr fornalldar (allium & forte ulpicum), er þar hinn hellste, þess vegna er enn i dag þat nafn tillagt allio i Enskre túngu og Þiódverskre. Vor ville lavkr (Scorodoprasum) sem sprottid hefir sudr i Borgarfirde, og nú er líka her innlendr ordinn, finz þar undir. Hvítr lavkr kallaz allment á þydska túngu Knoblavkr, máske af knappinum ofan á. Sú aunnur tegund er ravdr lavkr, (Cepe) sem Þydskir kalla Zviſil, hann hefir nedann vid sig böllóttann ravdann kólf, af maurgum laugum samsettann, hvöriu utan yfir audru, og vaxa blaudin i pípur: þesse lavkr er hellst tvenn slags, vetrarog sumar-tvísill. Sú þridia tegund nefniz i Þydskunne einúngis lavkr (Porrum), og máske vier höfum so fordum giört, þvi eins tala Danir enn i dag. Hann vex til mikillrar hædar, og nefniz af þeim

þeim stóru blóm=knauppum hǫfud=lavkr, enn nær hann ei fær hǫfud, og leggr mest til bladanna, (sem smám saman skorid er af til brúkunar), þá heitir snid=lavkr. Rótin er hvít, aflaung, sivaul og margir rætlingar nidr úr. Ein minne tegund her af nefniz Porro og Spanskr lavkr, hann brúka mest Frackar og Italar. Þessar vóru nú þær þriár hǫfud=tegundir, sem at saunnu misniuna i krapte og dygdum, enn eru þó allar heitrar náttúru, opna og drífa líkamlegar afrásir, standa i móte ormum, og nœmum siúkdómum. Yfir hǫfud at tala, þá eru lavkar vinveittare phlegmaticis og þeim, sem slím=mikid blód hafa, enn siðr i minna lage, og sínar hugrenningar, helldr enn ǫrlyndum og diúphuxudum maunnum. Hvitr lavkr er allra sterkastr, enn hinn spanske mest tempradr.

## §. 79. Um hvítann Lavk.

Hvítir lavkar vilia miúka jǫrd, og jafna vǫkvann i þurkum, vid þat missir urtin nockud af skerpu sinne og verdr þydare fyre smeckinn. Hvítann lavk þarf ei med fríóve fiǫlga, helldr má taka þá bestu ánga sem út úr rótinne standa, skera af, og setia nidrí reitinn, tveggia þumlúnga diúpt, med þriggia edr fiǫgra þumlúnga nille=bile. Allar rætur þrífaz betr, sem med mínkande túngle plantaz, enn um þessa lavka tegund, hallda menn þvert á móte, at hann med vaxande máua fáe sinn fullann krapt, annars verde hann smá=rætinn og davn=linr. Sídan gródr=sett er, þarf hann eingva, (at segia) umhirdíng, nema at lesa i burt allt ill=grese, þvi adrar urtir þolir hann ei nærre sier. Hvítr=lavkr upptekinn at havste, er bundinn i bindine og vindþurkadr, má samt at vore af hǫnum planta; enn

ei þeim er reyktr verdr, hvör samt er gódr til líknar og krydda. Hvítr lavkr brúkaz nær i hvöriu medale, sem hesta og smala qvilla lækuar. Fyre ferda menn og vinnu fólk, sem þurt bravd eta, og slæmt vatn drecka verda á sió eda lande, þá er hann ágætr. Olaus Magnus segir, at Svíar hafe neytt hans med sterku öle.

## §. 80. Um adra Tegund Lavka.

Þat er sagt um ravdaun lavk, at hann sættiz vid laka jörd, enn þat gylldir þó ei um sumartvísla, þeir vilia hafa þietta og vel mykiu borna jörd. Sádid skal ádr bleytaz i mykiu vatne, þar til ktt opnaz ser ádr sád sie. Sá gródr-sette lavkr, vex alltíd betr, enn hinn, þó þuun-sáinn være. Iafnan skal ill-grese frá ravdum lavk uppræta, og vökva i þurkum; blaudin má og skera, og nefniz þá snid-tvisill. I midium Augusto ber allt gras af at nema sumar lavkinum, so at rótin vaxe þess betr. Timganar-lavkr vex i háfa stavng, so madr hlytr styttu vid hann at binda. Frost þolir sumar-tvísill ecke. Vetrar-tvisle er sád at havste, so fær gard-bóndin tímanlega á sumre rosknada lavka, og fræ af þeim at havste. Ravdr lavkr er of sterkr ein gavugu at eta, helldr er hann til at krydda mat. Allra hellst er hann ætr sodiun med kiöte og fisk-ætum, heill, og eptir sodninguna burt tekinn, þá hann mist hefir mikid af skerpunne. Erfidis fólk bordar hann á morgna, med salte og bravde, enn studerande mönnum er hann til navtnar óhentugr.

### §. 81. Um þridiu Tegund Lavka.

Sú þridia tegund lavka, sem einfallt lavks nafn hefir, og romveriar kaulludu Porrum, vill ei hreina mat-jörd, helldr nockud sand- og leir-blendna. Hönum má bæde sá havst og vor, og er hinn fyrre sá, sem Danir kalla vetrar-porro. Rótina má rísa sundr á samt urtinne, og grafa nidr i reitina. Þá hann vex upp, þá vill hann góda ræktan og vökvan hafa, og ei þolir hann hiá sier annad gras. Tregdiz vöxtr hans, má dreifa yfir hann nyrre molld, vid þat sær hann sem nya dád. Þann Spanska lavk þarf best at vakta, sá i verme-bed, og vökva hann kostgæfelega: sidan nær hann er vaxinn fingurs hár, þá skal planta hann, sem forskrifad var um sillara. Sumir plaga at gródr-setia lavk ásamt þvi alldine i sama reit, og annari hvörre röd, bera so ofan yfir hann ásamt; enn at havste upptekinn er hann geymdr i þurrum sande, i kiallara, ef til er. Ut af fyre sig gefr lavkr ei góda næring, giörir skerpu og órólega nætur-hvíld; enn i hófe neyttr, giörir hann klára ravst, og hefir ádrar dygdir.

# Atiande Kapitule.

### §. 82. Um Kervill.

Kervill, (Chærefolium) er ein holl og lystug krydd-urt, sem her hefir varid, hann vill góda feita og deiga molld, i sólar skugga; má sá til hans seint og snemma, þvi fliótt sprettr, enn



skal vel hreinsa frá ill-grese, og opt vökva, nær þurkar ganga. Tímganar-stángir standa þar til roskuaz og þorna, þadaun af er med þær höndlad, sem adrar frió-mædur. Grasid brúkaz til at blanda med salat, edr adrar lyst-urtir, enn allra helst sapaz þat saman vid kál-gravta stauppur og spad, til sælgætis, smeck-bætis, og heilnæmis, þvi kervill hefr margar dygdir, þynnir blód-hlavp, flytir tídum, greidir þvag-stemmu etc.

## §. 83. Um Steinseliu.

Steinselia kallaz af Daunum Petersillie, (Petroselinum) hún vex her á lande, og nægiz med laka jörd og þurra; sie hún annars diúpt uppstúngin og barin vel, enn urtin jafnadarlega vökvud. Sædid liggr miög lenge nidre, þvi skal nockud af þvi taka og blanda þvi vid molld, i litlum urta-potte, vokva so þriá daga i röd, med volgu vatne eitt sinn á dege, dreifa sídan aullu saman i reitinn. Stein-selin má skera allt sumarid, þó ei þá jurt, sem rótin á at vaxa undir, eda fræ gefa, þvi sú skal óskaudd vera. Allann vetr kann hún at lifa úte, med hálm-breidslu yfir, eins undir snió. Bæde grasid og rótin, sem hvít er, laung og digur, vidbeisk enn þar hiá þægelega ilmande, hreinsar blód, gefr gódann smeck, og holla fædu. Med urtinne kryddaz fiskr, kiöt og smiör-brád, og med rótinne, sem þversnidin er i krínglur, sódin og laugd ofan á þesskonar rette. Hún geymiz i þurrum sande. Steinselia opnar, þynnir og bætir lúngna, lifrar, miltis, nyrna og blaudru stemmu, og fleire dygdir hefir hún.

## §. 84. Um Kúmen.

Kúmen, eda rettara sagt ville-kúmen, kallaz utanlands carvum og karve. Þat vex i gaurdum, tveggia álna hátt, i þurre svartre jörd; enn af þvi þat finz og villt her i lande, helst i Fliótshlíd, þá er betra þadan at fá. Rótinn er sifriók og þvi være betra hana at fá, eda hnavs med rótinne, til at setia nidr annarstadar. Kúmen er holt fyre magann, giörir fljóta melting, styrkir heilann, eykr miólk og bætir idra vind. Þat er gott med næpum og rófum i bravdum og ostum. Kúmens rót úng er góð at sióda med kiöte og fiske-mat, sem stein-selia.

## §. 85. Um Dillu. Anethum.

Dilla er kúmene nærskylld og svipud urt, er her á lande hefir og vaxid, vill hún álíka jörd hafa, og brúkaz til at gefa ymsum mat-vælum gódann smeck. Fræid dreifir útvortis meinsemdum, gefr svefn, mótstendr hixta og klyu, temprar holds frygd.

## §. 86. Um Salviu.

Salvia má ei gleymaz, vegna hennar yfrid maurgu og fágætu dygda er hún allstadar i garda komin, og so hier á lande. Hún bætir sina breste, havs-qvilla, slag og lida skiálfta. Þvag og tídir leidir hún miúklega. Hún stillir nasa-blód, og i víne edr' øle er hún ðrugg líku gegn eitre; margt verkar hún fleira gott. Þvi spyr skolin i Salerno so sem undrande:



Car

Cur moriatur homo, cui crescit salvia in hortis?
Contra vim mortis non est medicamen in hortis.

Hvar fyre sálaz sá, salvian blómgaz hiá?
Vid davdans makt ei má, medal i gaurdum fá.

Sú tamda er tvenn=slags, stærre og minne, sem kallaz og gôfug, og at audru nafne kross-salvia. Hvôrt=tveggia gras er ilmande, med blá blóme, er gefr svart frió og gliáir á, hún er hrís kyniud, og skal hafa góda svarta jôrd, án mykiu fyrr og sídar. Eins eykz hún betr med af brotnum greinum helldr enn fnióve, enn þær se at vaxanda túngle gródr=settar, fiôgra fíngra diúpt. Spart og sialdan skal henne vatna, og ei utan i mestu þurkum. Fyre mykie skal hún hafa lútar auskn til áburdar, og gamla leir=jôrd. Enn her mætte og reyna mó=ausku og feitann ósúrann leir. Blandin má þess á millum afbrióta, og vid þat greinirnar kurlaz af, þá fær hún þyckvare stofn og legge. Ef salvia villde med oss vaxa, þá være þat ómaks minst med þessu móte. Avk lækninga brúkaz hún til matar, og helst kiôt=retta, i súpur, steikur, og til alls feits kiôts, fugla fierilage, vid álum, i eggia=kaukur etc. At hún fáe eitrud blaud af ormum, sem nærre henne vilia vera, þarf her á lande ei at óttaz.

## §. 87. Um Mynt.

Mynt og kross=mynt er ágiæt krydd=urt, nockud hrís=edr ling=kyniud, hún vex i svartre gódre jôrd, og vill giarnan sólar skugga, þó ei kullda ne nordr átt. Ur þvi hún fer at spretta,

má planta þá hiá-vexte eda qviste, sem hier og þar kríngum adal-rótina framkoma, eins hennar afrifnu greinir; enn ei skal þær med knife nema, þvi mynt hatar jarnid. Kross-mynt er fyrir audrum myntum, og hefr hier sprottid: ilmande er hún, smeck-sterk og þægelega beisk, þvi er hún vid ymsa rette haufd, og styrkir ágætlega magann, bætir vindgang og qveisur, og til ymsra likna heutug.

## §. 88. Um Meiran. Majorana.

Meiran er önnur ágiæt hrís-kynind urt, hvör vaxid hefir sudr á lande, hún er bæde ilmande og smeck sterk, kryddar matinn vel, bæde kiöt og fisk; avk þess er hún hæf til lækninga, styrkiande magann, aptrande vind og innann-taukum, og hrærande stemdar tídir. Meiran vill góda svarta feita jörd, sólar-skugga og þó hlie fyre kiælu. Rætur hennar og greinir má afrifnar planta. Vel vill hún láta vatna sier, og allslags urtir og illgrese frá sier uppræta.

## §. 89. Thymian.

Thymian lífgar mann og hefir margar dygdir, enn hún vex hier lítt: líka höfum vier vora blódbiörg i hennar stad, sem heitir ville-thymian. Priár fyr taldar urtir ern so sem einrar ættar, og hafa svipadar verkanir. Ver-frióvadar i twivelldes (didynamia gymnosperma); sú margdygduga blódbiörg kann þeim langt at ná, þó thymian fóstriz ei hiá oss, i urta-gaurdum.



# Nitiande Kapitule.

## §. 90. Um Lyst-urtir eda Salaut.

Lyst-urtir giöra menn lietta og lida-miúka. Salat, eda sem Þydskir kalla Lattuka, hefir nockrar tegundir; á medal þeirra eru vorir hinir villu æte-síflar eda Lións-tennur. Þær Lattúkur eru ferslags, sem med oss spretta: 1) Sú algengna, slietta og óhösdada. 2) Hin krull-bladada. 3) Hin brún-bladada. 4) Sú hösdada. Ser hvör þessara vill hina bestu jörd, nóg tadda, og mikinn sólar hita. Þó þola þær ei sól ny-uppkomnar eda ny-plantadar. Nær lattúkur fara at vaxa til hædar, þá má vana þær, og med mykie gródr-girda, sem hvítt-kál. Af krull-salate má smám-saman afskera blaudin á sumrum til brúkunar, enn skerda samt ei hiartad. Tímganar-salat er so medfarid, at þá frió-módirin hefir fullvaxid fræ fengid, þá er leggrinn friór afskorinn, og upphengdr á stofne i vind-húse, þar til fræid roskna. Salat má hafa um vetr, med þvi at setia inn i eigin molld á havsle, og láta þar blása um hríd, og þorna i svaulu húse. Sídan má setia þat i þurrann sand, og lifir þat so lenge. Allar tegundir lattúkna eru votar og kalldar, hollar heitum mannnum, enn kaulldum og maugrum óhentugar. Hiá þeim sem þurrar náttúru eru, og torsóktr er vallgangrinn, þá greida þær hann. Og þvi át Augustus Keysare þetta salat med góðre verkan. Vid blód-beiskiu og skyrbiúgeker þat fínt med stilling etid. J forn-ölld var þat etid Fyrst rietta til matar lystar, og seinast til at hindra öls áfá og svæfa. Af þvi at þess kallda edle er ei

aullum

aullum so hallqvæmt, þá er betra at blanda þennann riett medþ heitum krydd-urtum, er nylega vóru taldar, edr og litlum lauke, þó helst kervle, eda þeirre urt, sem næst her eptir verdr talin. Hollust brúkun fyre bú-menn, er at sióda lattúkur og eta sem kálgrese, leggirnir stystadir, og hiarta-knapparnir eru gódir i spád, eins sodnir á kiót at strá. Samt er lattuka næringar lítil mat-urt. Góð er hún i einlífe og stillir vel siafna bryma; margar hefir hún fleire dygdir, og ei diktudu hin heidnu skáld þat blátt fram, at Adonis være af Venere á medal Lattúkna grafin.

## §. 91. Um Nasturtium.

Nordr-landa Þiódir kalla Nasturtium ymist Kars edr Kræss, enn sumstadar á Islande nefniz þat villa gras hrafna-klucka. Kræss er hin ágætasta lyst-urt, sem her vex vel i gaurdum, og vorum Islendska kroppe er hardla samqvæm. Hita vill hún hafa, góda jórd, og tída vökvan. I mykiu beck er hún sett, so snemma uppkome. Vor hrafna-klucka hefir alla saumu verkan, nema dygdugre sie, sú sem sprettr á þurrlende. Allt nasturtium er heitt og þurt, og vegna þess ein-valid til at menga vid lattukna-salat, þvi hauda þeim sem náttúru kalldir og vessa-rikir eru, þá er þat gott eitt saman tilbúid, sem annad salat. Þat mótstendr volldnglega skyrbiúge, bætir blódskerpu, þynnir hid þyckva blód, hófslega kyndir siafna bryma. Þat órvar og vakra giórir þá sem eru dofnir, sofnir og ónenningarfullir: þar af kemr máltækid: ede Nasturtium; þat er: vertu lifande. Þat átu miög Persar, og Hollendskir borda þat á vorin, med smiórgudu brauðe til blód-bætis.

# Tutugasti Kapitule.

## Um Matar Tilbúning Gard-alldinis.

### §. 92. Varnagle.

Kann vera laundum vorum þyke lítil-fiörlegt fyre karlmenn at skipta sier af búr-sysslan, ellegar at vita forsögu á mat væla tilreidslu, enn adrar þiódir líta ei so á þat efne. Í forn-aulld funduz á medal hinna hravstu Rómveria lærdir menn, sem allt þvílíkt smá vegis lærdu og dæma kunnu, so sem var hinn fiöl-lærde mikle Varro, hvör eins hefir þat mesta og minsta fært til sins máls. Lærdir menn þessarar alldar eru enn þá nær-gaungulare qvenna sysslan, og þvi meire rókſemdir þykiaz þeir hafa, sem greinelegar kunne her um at tala, so sem siá má af maurgum prentudum merkelegum búskapar ritningum, hvöriar og so hiálpad hafa til þessa verks.

### §. 93. Um Kál-mat.

Um kál, so sem þá helstu mat-urt skal fyrst ræda. Þess ymsar tegundir tilreidaz ymislega, enn þó helst med tvent slag, nefnelega til gravtar og stauppu. Þar fyrir utan brúkaz kál til at krydda med og drygia kiöt-spad, og vier skylldum, einkum fiske-fólk i sió-plátsum, bæta med þvi fiske-sód, helst þá feitt er af heilag-fiske, stein-bitum etc. Her til er kálid brukad nockud stór-saxad. Ung-kál og hálf-vaxid skufa kál er liúf-fengara enn hid stór-vaxna, og einkum ur þvi at leggr og blóm er komid. Eptir þat at kál-tegundir hafa frosid lítt at

at havste, þá smacka þær best, og fínastar verda þær vid frostid. Þat er og atgætsluvert um kál-sudu, at sie hún máтuleg, þá gefur rietturinn, tempradr med kiötva edr annara hluta gódre situ, miúkann vallgang: enn sie kál of sodid, þá verdr álsrekinn torsóttr miög, og rettrinn óhollr, eptir þeim Griska máls-hætte: Δὶς κράμβη θάνατος. Konurnar verda at hitta á vissar kríngum stædur, edr út úr at brióta, þvi sem her er i stuttu mále drepid á.

## §. 94. Um Kál-gravt.

Hann er giördr á þennann hátt; uppskorna kálid er þvegid i vatne. Sen leggir digrir, verda blaudin astekin, enn þeir styckiadir i litla munn bita, flysiadir samt ádr ef trienaz hafa, og sodnir sídan i kál-gravte eda spade. Kálid siálst eda blaudin saxaz i qvartile edr hálf-tunnu, med breidu jarne, laugudu sem páll, og sie skaptid so lángt, at náe upp úr ilátinu. Þvi smærra sem saxad er, þvi betre verdr gravtrinn. Ecke skal leginum spilla, sem undir setz á medan verid er at saxa, þvi at hann er hollastr og næringar bestr, skal láta hann i pottinn med saxinu.

Kál-gravtr er giördr af vatne og salte eda sió blendinge, sumir hafa lítid miöl saman vid, adrir giöra úr miólk, hinir þridiu, so sem allar útlendskar þiodir siósa kiöt nidre i, og þótt ei sie nema lítid fleske, þá þykir þat strax bæta. Eins brúkaz smiör i þennann gravt, sem hræriz saman vid, nær bordaz. Islands bændr kynnu hafa her vid stórann hagnad á havst-tímanum, þvi at eins mans skamtr af kiöte eda so kgulludu slænge, kann

at

at gera þægelegann og hollann máls = verd fyre 10 menn, ef hann være med kále sodinn. Eg vil ei vera marg = ordr her um, þvi at skynsamir og hóf= samir bændr munu siálfir finna sannleikann, og út af þessare forsögn margt fleira spinna sier til hagn= adar; þvi þat er ecke nóg, sem nú hefir tídska verid hier á Islande nærstlidin ár, at sá kále i litinn blett til gamans, og giöra sidan ord af þvi vid granna sina, hvörsu vel þat hafe hiá sier sprot= tid, enn hafa so eckert gagn þar af framar, og hætta sidan vid sádverkid.

## §. 95. Um Plock = kál.

Plock = kál eda kál = stappa er einn höfud=riettr, sem af grænu kále er giör, bæde liúf = feugr, þægelegr og hollr. Stauppu af hvítum kál=höfdum þarf her ei til at taka, á medan þav getr ei á Islande. Stappa af legg = blóms = kále er allt annad, hún er giörd af blóm = knauppum þess alldinis. Nú skal til plock = káls velia einkum blaudin leggia lavs af þvi græna krullada kále, þá þat er ei vaxid; þá úng = káls lífnada smá gródr= setninga, skúfa = kál, og helst þav liúf = fenguſtu og smá = gerdustu blaudin á til þessa rettar at velia. Kálid er þvegid upp, risid af blada = legginum, hver styckiad fyrst stórt, og sidan skorid smærra lángs eptir, og er hægast at leggia maurg blaud saman, og skera so aull med einum drætte. Ei skal saxa þá blada parta, ne smá = skera. Þetta skurdsl skal menga med kervle eda peturselju, og sióda allt i hreinu vatne, þar til meyrnar kálid, láta þá seydid mesta fra sya, stappa saman vid rióma eda nytt smiör, og sá i salte, jafna allt vel saman, á medan heitt er, i paunnunne, og sá ofan yfir sodnum smá eplum

eplum eda næpna-bitum, nockrir láta seydid stickna vid. Nær meira er vid haft, þá má dusta sykre ysir seinast. Plock-kál er bordad sem plock-siskr, med kiöte eda steik á audru fate.

## §. 96. Um þat, hvörnin kál geymiz i safne.

At ályktan vil eg kál-safns geta, þat þyckir bændum hier ómaks minst at hafa, og gódr bú-bætir. Kálid verdr vel saxad leggia lavst, sodid i hreinu vatne, án salts eda minstu fitu. Þá meyrt er ordid, er hætt at sióda. Saxid sie so mikid, at gravtrinn verde þyckr og samfelldr. Þá hann er kalldr ordin blanda konur hönum vid safu-skyr til helminga eda meir, eptir þvi sem hvörium líkar, og geymiz so allan vetrinn. Sá matr verdr sterklega, þó þægilega súr, og líkar vinnu folke; þvi þat safn stendr so undir i maganum, sem ersidis; menn plaga at segia; af þvi at matr þesse er travd-meltr, og þeim þar fyrir hentugastr, sem iduglegt starf og hræríngar hafa.

## §. 97. Um Mat giörd af Næpum og Rófum.

Af næpum og rófum er giör griónlegr gravtr med þessu móte: Þær eru þveguar i hreinu vatne, flysiadar og skornar i þuuuar flysir, saxadar sídan so smátt sem grión, giördr gravtr af med miólk, og látid smiör út á. Smackar þesse rettr so sætlega á havstin, eptir þat alldinid hefir frosid, sem sykr eda syrop være i hann borid. Gravtrinn er annars i fyrsta álite korn-griónum líkr. Næpur og rófur,

styckiadar

styckiadar i sundr i munn = bita edr tenninga, sodnar og bordadar med kiöte og fiske, kunna vel at brukaz i bravds stad.

## §. 98. Um Bravd = gerd af rótum, og bravd= leyse Islendinga.

Bravd verdr ei giört af öllum gardar ávöxtum, enn sidr af matvælum dyra = rikia. Náttúrlega skal hafa til bravd = gerdar annad hvórt fræ, eda rót ætrar urtar. Algengnast er og hefir verid bravd af hinum stærstu gras = fræum eda kornum. Þarnærst er bravd vída i heiminum af ymsum alldin rótum bakad; og i þessare kunst vita þær villu þiódir i America mikid. Menn giöra og kaukur af enn þá fleirum ávöxtum, so sem af eykar merge i China, af tria = alldine vída, af Furu = berke i Norvege á haurdum árum etc. Próf af bravdum, sem tilbúin vóru, bæde af rófum og ymsum kál = rótum, lagde einn Svenskr madr fram fyre Kóngin og Rikis= Rádid i Sviþióð árid 1741, og var þat vel inde þegit og álitit.

## §. 99. Atferd at giöra Róta = bravd.

Vier höfum fengid til landsins ny bravda efne, þott oss vante enn þá kornid, nefnelega, þat sem þvi nærst gengr og adrar þiódir brúka, þar sem alldin ræturnár eru. Atferd at búa til bravd af rótum er þesse. Eptir at þær eru hreinsadar, sodnar, og hinn stirde börkr utan af þeim flysiadr, skal steyta þær vel i potte, og þurfe þess, þá at þvæla musslid sundr i hreinu vatne; til at ná úr aullum avngum eda tægium, sidan skal vatnid allt frá sygia, og hafe menn

menn nóg miöl eda hveite, þá má blanda þvi strax þurru vid muslid, þar til at deigid er nógu þurt ordid, hnoda þat vel, og baka sídan. Enn skule lítt edr ecke miöl hafa, þá má þann nefnda róta salla þurka i vinde, og láta ei keckiaz, hafa sídan til bravds med nockrum ætum límande vetsa, annadhvört af korne, eggia ravda etc. Af steiktu rótar alldine, og sídan slysiudu, má sætastann salla fá, hvörn avdvelldast er upp at þurka. Nú kunna margar kríngum-stædur at koma, so sem efnid verdr ymislegt, og hlytr lag-kænska konunnar, ellegar þess sem matinn tilreidir, hófs at leita vid geran, bakstr etc. Enn þó menn kynnu svara, at slíkt bravd være miklu meira ómak at giöra, enn af korne, þá hygg eg þat fiærre fara, þvi þetr vita ei allt þat ómak, og margfaulld umsvif, sem fyre korninn eru höfd utanlands, ádr enn þat kemr híngat, i stadinn fyre þat, at vier tökum rótar alldinid tilbúid úr jördinne.

## §. 100. Um Hredkur, hellst Pipar-rót til Matar.

Allar hredkur eru fervelldis urtir, bæta meltíng og maga-slím, þær leida þvag, stein og tídir, enn best skyrbiúg. Pipar-rótar blaud sundr tætt, vermd i potte, og laugd sídan á, bæta þá brennande heima-komu. Pipar-rót er plockud, eda risin med rif-jarne, vætt i ediks vatne, og stundum bætt þar hveite vid. Þesse stappa er i leirpotte látin kravma, tekid muslid strax af, bætt vid smiörе og korinnum, og hrært vel saman. Þesse stappa er med spónum avsin ofan yfir feita fiska,

fugla og einkum navta kiöt ósteikt. Of mikil navtn þessarar rótar, giörir höfud-verk, og avgu daupur.

# Tuttugaste og fyrsti Kapitule.

## §. 101. Um Matgiörd Jard-epla.

Jard-eple eru eitt hvört, þat merkelegasta rótar alldin; þav næra bæde frekt og miúklega, og þess vegna vilia menn hallda þav stære siafnabryma, enn þar þavg hiá nockrum mönnum hafa vinda giört, þá kemr þat af tilbúningnum, helst þeirra litlu, sem óflysiud eru sodin og etin: Þvi skal nú þeskonar epla medferd skira, sem avdveldust og undir eins holl og þægeleg sie. Jard-eple má steikia á glód (pickud ádr), flysia sidan, og eta vid smiöre, edr ein saman. Annar sá einfalldaste mátinn er, at þvo jard-eple og sióda i hreinu vatne, flysia sidan og borda fyre bravd med kiöte, siske edr audrum þeim hlutum, sem bravd er til brúkad. Þav má og so birkia, steikia i glódar paunnu, og so med smiöre og piprud framreida. Eins má þav þaunig sodin og flysiud, án smiörs eda salts, i flysir sundr skera, leggia á disk, hella yfir ediks vatne og litlu vid-smiöre, pipra so seinast, og neyta fyre salat eda lyst-urt, med steiktum fiskum ellegar audru kiöte. Eins má sióda og borda pottatur vid allslags mat, þvi þær hafa og sá smeckinn þar eptir: med últdnum og nyum siske, i allskonar stauppum, i slóadre miólk, flavtum, etc.

§. 102.

## §. 102. Um Epla = gravt.

Hann er so tilbúinn, at eptir þat æxlin i hreinu vatne sodna, þá flysiaz þaug, og skeraz i þunnar kringlur, eru sidan söxud so stórt eda smá=gört, sem hvörium likar, af þessu saxe er hinn lakare gravtr gior med vatne og salte, og sidan smiör eda miólk út á látid, enn nær fremr vanda skal, og ei til spara, má tilbúa so likt hrís=grióna gravte, at ókunnugir skulu ei yggia, med þvi at láta saxid vera i stærra læge, hafa sidan miólk fyre vatn, og salt med, bæta jafnódum i miólkinne, og þaug inndrecka hana (hvad lenge skiedr) þar til gravtrinn er ordin liós og þyckr, þá er hann fram=borinn med smiöre úti, og sád yfir sykre og kannel=berke. Þesse rettr er miög driúgr og sádningsamr.

## §. 103. Um Spinat = stauppu.

Spinat eda spinackann var bæde sem mat=urt og krydd=urt fram sett ei alls fyre laungu, hún er ei einasta góð til at hafa i kiöt=saup, helldr má einnig, sem kál=gravt af henne giöra, med allt eins atferd, og leggina þar i styckia sem kál=legge, er þesse rettr bæde liúf=fengr og hollr, og hans verkan hiá mönnum var á fyrre stadnum talin. Samt er spínats stappa enn algengnare rettr, til=búinn áþeckt plock=kále, blaudin, strokin og tekin af legginum, sodin i hreinu vatne, og færd upp med gata sleif, at þat frá renne. Nær þaug af sudunne eru meyr ordin, þá leggiaz þaug á tin=fat, sidan er mengat þar vid nyn smiöre og salte. Sie meira vid haft, þá verda korinnur i látnar, og stappad eda saman=hrært yfir hægum ellde, framreidt og bordad sem annar plock=matr, vid

 nyn,

nyu, sodnu eda steiktu, gaumlu reykktu eda saultudu kiöte.

# Tuttugasti og annar Kapitule.

## §. 104. Um æta ville vexte.

Híngat til hefir rædt verid um kál og adrar tamdar mat=urtir, nú mun eg líka minnaz nockud þeirra kál=gylldra urta, sem vaxa her i lande villar, og brúkadar hafa verid af vorum forfedrum fyrir oss, samt eru enn brúkadar i ymsum herudum Islands, hefe eg nockurra þeirra getid i qvæde þvi, sem eg kallad hefe búnadadar=bálk. Her at framan hefe eg og so getid þeirra ville=strand=erta, sem i nockrum staudum þessa lands vaxa, eins melsins fyrir avstan, og mun eg þat ei her ítrecka, helldr nefna at eins hina sem ótalldir eru.

## §. 105. Um Fardaga=kál. Patientia.

Fardaga=kál kallaz heimis=nióla blaudkur. Þetta kál er tilreidt sem kál=gravtr, tún=súrur eru gódar þar saman vid. Jurtin er annars blód=hreinsande, mótstendr skyrbiúge og gulu. Kiöt=sita á her vel vid. Þesse rettr er bæde brúkadr i Hollande og Jotlande, og kallaz patientz=kál, sem D. Simon Paulli vottar.

## §. 106. Súra, Lamba=blaudkur, Acetosa.

Súra er nafnkend besta mat=urt utanlands, af henne er gravtr giördr med vatne, salte og kiöte,

kiöte, hollt og liúf-feugr, þvi urtin stridir á móte skyrbiúge, og allre rotnau blódsins, er hiarta styrkiande. Súra brúkaz lika til stauppu, til salats, fræin til bravds og gravta. Súru-miólk búa Finnar til: þeir safna miklu af blaudunum, láta i ketil, hella á vatne, sem svare einum þridiúnge, sióda so, þar til juckid er þykt ordid sem sýróp, bæta enn i nyum blaudum og seyda, hræra i med spada, so ei brenne vid, og kann þesse seydsla vara 2 eyktir eda dags mörk; sidan nær kólnad er, blandaz þar vid hreina-miólk, og geymiz so lángvaraude i tre-íláte, vid kullda, i jardj-grisium eda fialla-gilium urdad. Þesse rettr er allmennasta fæda Finna, og smackar betr gamall enn nyr, eins þeim Svíum, sem sælgæte hafa vaniz. Olafs-Súra, med kríng-lóttum blaudum hefir saumu verkan, og má eins til-búa, þó er hún stor-gerdare.

## §. 107. Skarfa-kál. Cochlearia.

Skarfa-kál er ein ágiæt fervelldis urt, sem alþeckt er bæde utanlands og innan, og ræktud i alldin-gaurdum. Danir og sumir Islendingar búa hana til sem kál-gravt; eins er hún hrá fyre salat etin, og rótin ymist hrá eda sodin med kiöte etin. Hún telst af læknirum þat allra volldugasta medal i móte skyrbiúge, tída stemmu leysir hún. Brennevín á hana sett, er gód líkn vid munn-biúge, eins at bera á útvorris.

## §. 108. Fugla-túngur, Selgrese.
## Plantago Angustifolia.

Þesse urt hefir nockur blaud, med smá hornum út úr, og nefniz sú variatio, eptir grisska ordinu, kraka

sætla, (Coronopus), enn rótin heitir svína = rót. Þesse urt er lítils metin á landinu, vex hún i hrióst-ugu hardlende, þar eckert gras verdr slegid, enn allt fyre þvi hefir hún ágætar náttúrur, er hún náskylld græde súrunne, góð at leggia vid sár og kaun, still-ande þar hiá tídir og merg = runa sótt. Hún gefur vel smackande gravt, eins og kál-savp tilbúin, og þó hún sie saman-dragande, þá skiedr sú verkan med tempran, enda gætir þess ei, nær gravtrinn er med smiöre, eda vid feitu kiöte tilbúinn. Kraka = sætla ræktaz i gaurdum i hollande og vídar til salats. Blaudin eru stor = stykkiud framreidd á diske, med. ediks vatne og vid = smiöre, pipar duste er sád yfir.

## §. 109. Lækia sóleyg, hófbladka.
Caltha palustris.

Hún er alþeckt urt hiarta styrkiande, og hafa blaud hennar stundum, her og sydra, sem kálgravtr sauxud og sodin verid á vor-tímanum, ádr enn blóm-strid opnaz, þvi eptir þat verda þavg þunn og þurr. I Italia brúkaz hún sem salat, fyre brióst = veikar manneskiur, med sykre, edike og vid smiöre.

## §. 110. Purpura = blómstr.
Epilobium palustre.

Her vestra kallaz þetta gras so, þat er náskylt hinne faugru Eyrarós, er vex i Borgarfirde og Breida-fiardar-daulum. Þat brúkaz fyrst á vore, þá blaudin eru miúk og lagarfull, sem annad kál. Gefur þat þægelegann rett.

§. 111.

## §. 111. Hellu-hnodre. Sedum eda Sempervivum acre.

Hellu-hnodre tídkaz mest fyre siúka menn, í miólk sodin og druckin. Stundum er hann hrár etinn, vid hósta, kvefe, brióst-veike og landfar-sótt. Vier mættum hans optar neyta ósiúkir, þvi hann mótstendr skyrbiúge, gódr vid kaulldu, hreinsar nyrun, greidir vallgang, dregr vessa af vats-siúkum mönnum, hefir og fleire dygdir.

## §. 112. Smáre. Trifolium pratense album.

Smáre vex vída á Íslande, og hefir brúkaz af fólke tilforna, þvi finz hann bæde verd-lagdr i sumum Búa-lögum, og líka sannar þat máls-háttrinn. Ei er smiörs vant þá smáre er fenginn. Hann er nú ei etinn nema avstr á lande: 1) Urtin heil án rótar, hrá med smiöre. 2) Smærurnar, so kallaz þeir þyckvu leggir ofan til vid rótina, þær eru sodnar i miólk, sem sætnar, enn þær verda meyrar og ætelegar.

## §. 113. Korn-súra, Hunda-súra. Bistorta.

Þesse urt hefir á kornstaunginne (scapo) hnúda eda bulbos, hún er ágæt sára bót, stillir blód volldugleqa; bæde dust hennar dreift yfir undina, og seydid druckid á vid blód-runa, lífsyke og tída-rensle. Rótin er gód vid tann-verk, og jurtin etin med skarfa-kále, mótstendr skyrbiúge. Kornid er þurkad ef geymaz á, annars sódid strax etid, ellegar sodid, steytt og giört úr bravd eda gravtr. Líka má gagn-

þurka kornid yfir ellde, mala sídan, og brúkaz þá þat miöl til brauds eda grauta; hefir sinn eiginlegann smeck, þó sætann, helst i graute med miólk sodid.

# Tuttugaste og Þridie Kapitule.

## Um Smávidar ávexte, Frutices.

### §. 114. Um Jardber. Fragraria.

Þó at þesse jurt kunne varla smá-vidr heita, teliaz þau samt her med. Þaug hafa verid ein fyrsta fæda fornalldar manna, sem vottar Ovidius (Met. Libr. 1.) eru ágæt at verkan, samandragande nockud og kælande, þessvegna gód sára bót. Rótin tuggin stillir nasadreyra, þau svala vel, tempra blódshita, og eiga best vid þá, sem eru heitrar og þurrar náttúru. Þesse ávöxtr, sem hefir lystelegann vín-smeck og daun, finz i gaurdum utanlands, vill hafa miúka og lietta jörd, nockud sand-bleudna. A Íslande eru þaug vída, enn allstadar litid af þeim. I gaurdum være verdt at reyna at hafa þaug, stínga upp hnausa á haust-dag, og setia nidr i vidlíka jörd og afstaudu, sem þaug höfdu ádr; so hafa þaug ordid stærre i ræktadre jörd. Þaug eru hrá etin i rióma i Svíþiód, Fracklande og vídar. Musl er af þeim giört, med vatne eda miólk sodnum. Líka verdr kul-skál, af hrám berium, med víne og sykre. Lögr þeirra med sykre seyddr bordaz med thee-skeid, hann er gódr vid innvortis of-hita, bætir lifrar og miltis bólgu, kaldur og næma siúkdóma; edik er líka af hönum giört.

§. 115.

§. 115. Hrúta berialing. Rubus Labrusca.

Þetta líng er at blóm skapnade og blaudum líkt jard-beria línge, og þvi nákomid, enn ávöxtrinn er súr. Þeirra beria má eins neyta til heilsubótar sem jard-beria, i sykre saltadra, þar þav vidrqveikia vel og þurka, bæta útbrot, og stemma blód, nasa dreyra og lífsyke, blómid er vel lugtande.

§. 116. Lusa-lìng, Empetrum. Krækeber eda rettara sagt Krakaber.

Sá ávöxtr er nógr og alþeckter á Islande. Þesse ber eru kiælande og samandragande, samt er lögrinn bæde nyr, og súrnadr á vetrum vats-blandin, hinn þægelegaste dryckr, edik hefir her verid af þeim lege bruggad, eda súrt vatn med sudu drope, hvört miög var barkande; þat stillir blód, líf-syke og merg-rúna sótt. Krakaber látin i hreint sodid, kolnad vatn, og geymd so i þiettu íláte, gefa þægann þorsta dryck. Ellstu og trú-verdugustu annálar segia at vín hafi af þeim giört verid. Þat skiede hier um 1204, samt horfiz vín-giörd so vid, sem hún munde, helst af tveim nærst fylgiande smá-vidar ávöxtum bruggaz kunna.

§. 117. Adal-bláber. Vaccinium edr Myrtillus foliis serratis.

Þesse ber ræktaz um alla Evropam i alldin-gaurdum. Finnar hafa af þeim sitt mesta sælgæte, þavg eru þurrar náttúru, og dálitid samandrag-ande, kiæla og svala heitum maga. Allslags blód-

lát stilla þavg, eins mergruna sótt og lífsýke, þavg eru medhöndlud sem jard ⸗ ber, líka giöriz af þeim sykrad musl, þyckt bórid á bravd ⸗ sneid, og so etid. Jnck af þeim er gott, bólu baurnum at gefa, á medan veik eru. Þydskir menn brúka berin i súpur, slúr-bravd og adra rette, i stadin fyre kor⸗inunr og rosinur, eru þavg ádr þurkud i stórum troꝛum, reyna má at þurka nockr sem vínber, skera þavg af med næstu leggium ádr enn þavg vilia í etta, draga þá legge upp á band, so berin hánge nidr, og þurka vid sól og vind. Lappir giöra med þeim gódann ost, hvórium Linnæus hrósar. Þeir slóa miólk sinna hrein ⸗ dyra, taka vel af skán og sengin, blanda þar saman vid adal⸗bláberia musle, og koma aullu samt i þurkada hreina maga, sem þeir hafa til þess aptr bleytt; hengia maganu upp og vind ⸗ þurka, til þess ostrinn er hardr ordinn; gefa þeir þetta ságæte þeim, sem þeir hafa mest vid. Líklegt er vid geran, at vín bruggaz mætte af pressudum lege þessa ávaxtar; þvi mun þessu línge vera œnophori eda vín⸗selin nafn gefid. Vín⸗salar brúka þennann lóg til at bæta med smeck og lit vínsins og selia sídan dyrra. Litunar menn farva med ádal ⸗ bláberia lege dóck ⸗ blátt, bæde ull og lín, enn med líng ⸗ blaudunum verdr gult litad.

## §. 118. Bláber. Vaccinium eda Myrtillus foliis integris.

Þesse ber hafa vidlíka verkan og adal ⸗ bláber, þótt þav sie davfare og lakare halldin. Allt eins má med þavg fara og hin ⸗ berin. Her á lande sinz enn ein tegund blá⸗beria, sem vex i myra⸗flónm, og er ei smeck ⸗ þæg, ofr súr og barkande; hún hefir

bæde

bæde minne ber, og blaudin kríuglóttare, brúkaz sá ávöxtr ei til navtnar.

## §. 119. Eineber. Juniperus.

Eineber pryda margar og miklar dygdir, halldaz þavg af aullum læknurum Polychresta. Avstr i Fliótsǀhlid, á Þórs mörk fæz so mikid af þeim, at klyfia má hesta og brúkaz þav þar i fiſks stad med smiöre. Uti i laundum finz einir tamin i gaurdum, og vill sá laka jörd hafa, grytta og sendna, og siallðnaſt vatuan. Þar kunna menn brugga af hönum, med á helltu vatne, þvi er i gang kemr, yfrid hollann bord-dryck, og med audrum hætte sterkt brennevín. Berin brúkaz tilbúin sem caffee, i þess stad: atferdin er þesse. Yngstu og minstu ber eda visarnir eru látnir kyrrir vera, enn þavg grænu fullvöxnu dauckvu eda svartbláu (ellstu) eru tekin, og i vinde þurkud, ellegar yfir óne, geymd sidan árid umkríng eda lengr. Nær þavg eiga til at brúaz, þá eru þav steikt i hreinnre blickpannnu, jafnt og hægt sem caffee. Þavg linaz fyrst, og svitna lenge, er þat stillingin mest, at brenna þavg ei, vid hvórin þó hættaz er, helst ef ei vóru vel þurkud undir. Annad er þat sem árídr, at þav steikiz jafnt. Nær berin eru nú jafn-mó-brún ordin, og so haurd at malaz kunna, (hvad finna má undir fingrunum) þá skal af ellde taka, og láta smámsaman afslá, ætíd samt undir loke, og eru þav nú harla rír og gliáande ordin. Hin ellstu eda sortnudu gefa þægelegastann og miúkastann dryck, enn þav grænu sterkastann, og nockud vidar-qvodulegann. Nær nú malad er, þá vilia ei steinarnir (acini) nie þat feita kiötid so liett sundr ganga, þvi er ei sidr at steyta i gódu mortere, annad hvört

med

med aullu, ellegar lavslega fyrr enn malad sie, þvi ei er at óttaz, at þetta miöl láte sig, eins og caffee duftid: samt skal nockud fellt þak yfir morterinn hafa, og eins mylnunne eda íilátinu, sem geymt er i, þangat til at farid er at drecka. Þar eptir er siódande vatninu á hellt, so míklu eda litlu, sem menn vilia sitt heima-caffee sterkt eda lint hafa, og setr þat sig og skyrir af siálfu sier, miklu betr enn útlendskt caffee. Þat er ei nær so sykr-frekt, og verdr þravta-lavst druckid fyrir utan allt sykr. Eins er þat langtum endingar betra, helldr enn hid útlendska, þvi i stadin fyrer, at ei er i þat skenkt nema eitt sinn, og þá hefir þat útselt, þá má skenkia þrisvar á vort caffee, án þess at þat veyfiz stórum, ef medal fliótt er sopid. Sú helsta verkan dryckiarins er at þynna blódid, og hentar hann líka brióst-veikum mönnum, einkum nær þar hiá er langvarande hóste; maga-veikum er hann hollr, og stillir idra verke.

# Tuttugaste og fiordi Kapitule.

## Um fleire ville Blómstur.

### §. 120. Hvönn. Archangelica.

Hvönn er vegna sinna dygda vídast komin i alldingarda, her i Nordr-álfunne, bæde jurtin og rótin er fyrir avstan bordud hrá med smiöre, her hefir hvört-tveggia til salats brúkad verid. Hvanna-rót er gód i thee, þurkud ádr. Finnar tiggia þurra hvanna-rót fyre tóbak. Linnæus segiz hafa

reynt

reynt med Finnum at eta flysiada nióla, á medan hann lífde á þeirre kostudu hreina-miólk og ósaltre fædu, og drack þar til daglega hreint vatu. Af Finnum kryddaz miólkin, og eins súrna juckid med hvanna blóm-knappa hösdum, þavg saumu eru og hösd i kiöt-súpu. Haurd og mulin hvanna rót, má brúkaz yfir blavtann fisk, sem pippar; sú mylsna er og gód saman vid brædt smiör at dífa i. Best er at taka úngar hvanna-rætur, og planta þær at havste i vid-raka iörd, þær koma i fræ á þridia áre, og sídan deyr rótin. Annars ef sád er fræe, þá sie þat bleytt 24 stundir i vatne, þvi sem súrdeig hefir verid sundr þvælt i.

## §. 121. Snóka-hvönn. Angelica erratica.

Þesse urt kallaz og Geirards-urt og seitla, af Grisku nafninu ægopodium. Hún er náskylld æte-hvönninne, þó hún hafe ei nær so mikla dád. Hennar helste kraptr er at lækna fóta-veike, og þar af kallaz hún Podagraria. Eta má hana sem erke-hvönn, samt er hún best nysprottin á vor-túna. Avstr i Svipiód er henne safnad sem andrum mat-urtum, hvar hún vex sem ill-grese i alldin-gaurdum. Allar hvannir geymaz best nyar, ef lagdar eru i laugum, med nyum arfa i millum, so ei ligge saman, i úte-húse, hvar dyr snúe á móte nordre.

## §. 122. Æte-fifill eda Lións Tönn.

Leontodon, Dens Leonis.

Æte-fifill er beiskr, meinaz her breid-bladadir fiflar, sem bera hrafna-blaudkur, hvört sem blaudin eru eru sliett eda skaurdud. Þesse jurt og hin nærst eptirfylgiande eru þær einustu á Islande, er

hafa

hafa hreina og ómeingada remmu, og brúkaz þó til matar i navdsyn. Þesse fisill temprar rett vel líkamans beiskin, greidir stemmu miltis og lifrar, og i kaulldu-sóttum er hann gott medal. Hrafnablaudkurnar úngar brúkaz sem salat; þvi kalla Þydskir han engia-lattúku. Miólk úr fislum er góð á vaurtur at bera. Leggina undan bisukollu má og brúka sem salat. Rótin á havst eda vor verdr etin steikt á glód, eda med smiőre i paunnu. Þó verdr rótin enn þægare og miúklegar nærande, ef hún er i miólk sodin, líka má bravd af rótunum giőra. Hvar sem bravd er giőrt af beiskum rótum, er best at sióda þær fyrst i miólk. So hefir her giőrt verid vid hvanna-rót og korn-súru, og verdr bravdid vid þat sætara, enn lengr geymiz bravd, ef þat er i vatne sodid.

## §. 123. Qveísu-gras. Menyanthes.

Þetta gras kallaz og hor-bladka og reidinga-gras, enn af útlendskum urtamönnum optast trifolium fibrinum edr ánga-þríblad: Þat hefir hér alldrei etid verid enn i sumum herudum Svíþiódar brúkaz þat med tvent slag. Fyrst blaudin i stad humals i öl, hvar vid þat verdr gott og langgætt. Þarnæst rótin mönnum til bravds, med þeim hætte, at rótin verdr fyrst þurkud i vinde, hard-baukud sídan vid ofn edr elld, og mulin i dust, hvar af bravdid er giőrt, at saunnu rammt enn þó aullu heilnæmt. Þesse urt er ein hvőr best maga-bót, og læknar allar qveísur, vid skyr-biúge á hún. Hennar seyde þynnir blód og bætir miltis-sótt, vats-syke, lidaverk, kaulldur, avgnaveike, kluckna-hliód fyrir eyrum, gefur aptr missta matarlyst, og drepr orma i baurnum. Olúa-gras nefniz

urtin

þægeleg, nær sodin er, i miólk sierdeilis, af hvórre hún tekr smeckinn. Börkinn þarf af henne at taka. Hún má medhöndlaz, sem hin fyrr tallda.

§. 127. Góe-bitill, Gvóndar-ber.

Eqvisetum vernum.

Efste partr þessarar urtar, verdr eitinn hrár á vorin, ádr enn grasid elldiz. Best er þesse urt i miólkur-gravte á vorin, saxud sem kál, med litlu miöle eda hveite til.

# Tuttugasti og fimti Kapitule.

## Um Ætte-mosa.

§. 128. Fialla-graus. Muscus Islandicus.

Þesse graus eru þreuslags. 1) Þavg almennelegu, stóru ravd-fætlingar 2) Klóúngrinn. 3) Krædan, sem er minst og laukust, brúkaz mest Nordr i Þing-eyar syslu. Aull þesse kyn þurfa 2 edr 3 ár at vaxa. Bravd má af grausum giöra. Nær sodin ern, hnodaz þav saman vid miöl eda korn-súru, edr og jard-epla miöl. Grausin eru þat allra hollasta, sem Gud hefir gefid þessu lande, frá oss hefir þeirra þecking komid fyrst til framande þióda, vid þat er Borrichius frette þar um, og liet þryckia; sidan eru þavg ordin vída at lækning á Nordrlaundum. At hella á haurd og óbleytt graus siódanda vatne, sem beiskt verdr, og drecka þat eins og thee, þat er reynt ágiætt medal, vid maga-vindum og uppþem- binge.

binge. Góð fæða eru graus þeim, sem hafa megru sótt og uppdrátt. At fialla-graus verke líf-syke, sem útlendskir hafa skráð, merkiz her i lande alldrei, enn þar á móte er opt reynt, at þavg giöra miúkt líf, og stilla líf-syke.

§. 129. Máríu-graus, Lichen niveus, sinubus dædaleis.

Þesse graus eru dægeleguſt allra æte-mosa, enn þav þurfa meire suðu enn almenneleg graus.

§. 130. Mundar- edr Vaxtar-graus.

Þesse graus eru lítt þeckt, nema vestr á Islande, þavg eru sterleg, og grasa fágætust at kalla. Verkan þeirra er algenguum grausum lík, eins lit og hin lióſu fialla-graus, vaxande útaf fyre sig i leir-slaugum og þiettum skúsum uppstandande, hrein af audrum mosum og sorpe. Mundar-graus þurfa meire súdu enn almenneleg fialla-graus, og sieu þavg vel sauxud, finnaz þavg vera nockurs konar smá-grióna gravtr. Þavg mykiaz, enn sodna ei i hlavp.

§. 131. Geita-skóf, Lichen leprosus proboscideus.

Geita-skóf vikr mest fra grausum, at allre á synd og skapnade, þvi hún er kringlótt og bik-svaurt, optast at lit so ósieleg, at einginn madr skyllde ætla hún være manna-matr, enn um hana má vel segia, at her verde oss Islendingum bravd af steinum, þvi hún vex einasta á haurdum klettum. Hún gefir sæta og saduingsama fædu, álíka sem fialla-graus, hleypr vid sudnna, og rennur i lím sem þavg. Tilbúnings-

rinn er þesse: Mose þesse er uppþveginn, afvatnadr, saxadr, sodinn i vatne eda dryckiar blande, verdr sá gravtr samfelldr, sætr og vel nærande, þó betre úr miólk. Stundum seydiz hún smátt-saxud med siósblendnu vatne og litille miólk, þar til vel hlavpin i kauku og þyck er ordin, sídan er allt látid kólna, og skorid 'i sneidir, i pottinum. Af þessare kauku er tekid nockud hvórt sinn, og látid i mála miólk nær flóad er, rennr sneidin þar i sundr, og giórir miólkina vid-lífravda, þyckva og sæta, og er hún med þessu móte til sadningar hófd og sælgætis i Breidafiardar-daulum. Af sama hlavpe eda líme má deig giðra og bravd, med epla-hveite, eda korn-súrna miðle. Geita-skóf er þar til betre enn fiallagraus. Eins má þat hlavp til bravd-gerdar brúka af næpum edr audru rótar alldine.

### §. 132. Engia-skóf.

Hún er med þeim fegursta af lichenibus, miólkur-hvít undir, lióssgræn ofan á, med svaurtum draufnum; hún finz ofan á óræktar mosa i túnum. Af henne verdr og giórdr miólkur-gravtr med sama lag, sem ádr er sagt.

## Tuttugasti og setti Kapituli.

### §. 133. Sveppar.

Sumar sveppa tegunder eru óhollar og óætar, enn adrar rett gódar átu. Reynslan hefir þá at greint i ymsum laundum, og þeir sem Franskir kalla Champignons, eru mest brúkadir, og halldnir herra-

mans

mans matr. Á Íslande eru hellst þriár tegundir, sem kallaz; æte-sveppar, reyde-kúlur, og bleikar kúlur miög samaslags. Sveppar eru ei sídr heilnæmir, þegar þeir eru súrsadir, ellegar med annad lag geymdir nockra stund. Stappa eda gravtr er af þeim giördr med þessu móte: Tak þá upp, kasta burt fótunum, og flysia af ytstu himnuna ofan á þeim, þvo þá sídan vel i heitu vatne, sióð þá i audru vatne, so yfir flióte, sygia mest allt vatnid frá, giör sídan af þeim stauppu med dryck edr ediks vatne, og smiöre, pipra þá vel, eda sá yfir þá i pipar-stad hvanna-rótar mylsnu.

Stór-sveppa má só geyma, þvo og hreinsa þá, sem fyr var greint um þá nyu sveppa; þegar þeir eru vel þvælldir, tak þá upp med gata sleif, og lát i tinadan ketil, med litlu smiöre og litlu salte, sióð þá til byrgda, þar til smiörid á þeim verdr klárt, lát þá sídan i kruckn eda leir-pott, so smiörid flióti yfir þá og storkne. Sídan verdr at heita ílátid hvört sinn, er af þeim skal taka, þat sem þeir eru i, so smiörid renne yfir þá, annars myglar þat sem uppúr stendr. Má þessa geymdu sveppa sídan eins mat-reida, sem um þá nyu var sagt.

Smá-sveppa má so geyma: Taka skal þá litlu æte-sveppa og reyde-kúlur, einkum á medan þeir eru i hnappinum ei fullvaxnir, þvo þá sem hína, hell af vatninu, og lát þá i tinadan pott, sióð þá sídan i siálfra þeirra lege med salte, og haf hlemm yfir á medan, tak þá sídan upp, og lát i kruckn eda gler-budk, med pipar, blód-berge og laur-beria blandum; hell sídan á vín-edike, og



lát standa á þeim nockra daga, hell þvi af, og síód þá enn lítid, kom so á þá aptr nyu edike og geym sídan.

Annar máte er sá: úngir og smáir sveppar eru teknir med leggium og aullu, þvegnir vel, og skipt á, seinast i heitu vatne; sodnir so i salt=vatne 10 minutur (stuttan skatt=tíma) lagdir sídan i klút, so vatnid af renne; sídan eru saman vid látin heil pipar=ber, nockud muscat=blóm, og vín=edik so mikid, at sveppaarnir verde gagnvotir þar i, bætiz her vid nockud af hvítu= eda messu=víne: síód þetta allt til samans, og tak ketilin af elld=inum þegar sudan kemr upp; lát þá seydid sierilage, enn þurka sveppana, kom þeim sídan i gler=budk, hell á seydinu, og bind vel yfir; tilbúa má sem ádr er sagt. Þannin eru sveppar geymdir hiá vel megande mönnum utanlands.

## §. 134. Ætir Síóar=ávextir.

Þessir eru talldir ætir síóar=ávextir. Ætepang, kerlingar=eyra, biaullur, myrin=kiarnar, fiöru=graus og söl, og þesse sídast talin eru best af aullum síóar=urtum, þav næra lang best, og af þeim má sykr fá.

# Tuttugasti og siøundi Kapitule.

## §. 135. Tóbakid. Hyoſciamus.

Tóbakid hefir i vaxtar=búinu 5 karl=kyns, og 1 qven=stavngul; þat er ein eitr=urt, i maur=

gum

gum kríngum stæðum banvæn bæde mönnum og dyrum, enn med daglegre brúkan samkyniaz kroppsinn þessare ólifian. Þat drepr krabba orma og lys. Askan ádreifd grædir höfud-skurfur, eins giöra blaudin. Urt þesse verdr mann-há, med miklum þyckvum sterk-leggiudum blaudum, sem eru smitande. Rótin er marg þætt; nióllinn ber purpura-litt iblátt blóm, og þar eptir frió, sem svipad er meirans sæde; þvi er sád med krítar dufte, so ei of þiett falle, i svarta góda, feita og deiga jörd, annad hvört i ár-gróda beck, frió-kistu, eda þann vandadann reit á móte sólinne, sem best horfe vid hennar hita, og hafa gegn nordan og landnordan vindum gott hlie, þvi kulldin er þessarar urtar mikill óvinr. Undir i sád-reit skal hafa lag 1½ alin á þyckt af hrossa-tade vel ordnu, og þar ofan á miúka jafnada molld eins fótar þyckva, sem sálldud sie. Kornunum er sád tveggia fingra diúpt; og bæde nær sáid er, og júng-urtin tekr vid friálsu lopte, þá skal þær varúdir i minne leggia, sem um kál-sáning kendar vóru. Adr upp kemr, skal vel þekia med hálm-dynum og fiölum gegn næturfroste og kullda, og á daginn þegar kalt er (ef verdr) gler-hurdir yfir leggia. Tóbakid liggr sialdan so lenge nidre sem kál, og þegar þat er sprottid, so at 5 blaud siáz, þá má þat gródr-setia. Ill-gresid skal uppræta fyrr og sídar. Heila hnavsa verdr upp at taka, þegar gródr-sett er, og betra er, ef þiett hefir sprottid, jördina burt at skola, so þær marg flæktu rætur þess hægar sundr greidiz án meidsla. Planta skal i góda, vel tadda og myllda-jörd, med hálfs-annars fets mille-bile i mollu eda hlyu sólskins lavsu vedre, þvi hinir veiku gródr-setningar þola eingva geisla. Eins hlióta menn vel at vökva, þá regnlavst er og sólin skin, þar hiá i þurkum

 liettann

liettann þurrann mosa yfirleggia. Eptir mánad eda fim vikur má nedstu bland af nema og hagræda, brúga sídan molldinne upp at stavnginne, sem breytt var vid hvítt-kál; þetta má optar enn eitt sinn giðra, ef molldin hardnar miðg. Eins skal allar hiá-jurtir, sem upp af saumu rót spretta kunna, frá-snída. Nú verda innan skams blaudin brún, og fer madr at taka fyrst þavg nedstu. Aull mille-blaud skal og afnema, so hín stóru þvi meir þroskaz gete, og vilie stavngin of-sliótt gefa blóm og nióla, þá á toppinn af at brióta. Þar vid vaxa þavg rettu bland betr. Seint i Augusto, eda fyrst i Septembri (eptir þvi sem árar til) er farid tóbaks limid at vana, þó smám-saman, og fyrst hid stærsta, niólinn stendr seinast ber eptir, og er hann ónytr, nema til at jarda hann i sinne rein, og fúna láta. Til frió-mædra veliez hinar dígrustu og bestu stangir, hvðriar at saunnu afbladaz eins og hinar; enn topp-urinn med sinum sina blaudum, blóme og vaxtar búę er jafnaun látinn óskaddr.

Med afskornu blaudin er so farid, at þavg eru klofin upp til mids, til at ná burt hinum digrustu leggium; sídan leggiaz þavg i radir maurg saman á hlad nockurt, hvar ei rígna eda spillaz kunna; þavg hitna þar og svitna, eptir þvi sem vidrar til, eina viku eda nockud lengr, þar til blikna fara: samt meiga þavg, ei ofmiðg sveita eda svaurt verda. Nær tobakid er ordid gult og seigt, skal upp á lín-þræde draga, upphengia og þurka án sólar og þerris, so blaudin hardne ecke, enn nær þavg eru þornud, skal koma þeim i ílát, og so búid er tóbakid selt og spunnid. At saunnu smyria sumir menn þat ymis-lega, eptir þvi sem hvðrs eins grillum hræsna vilia, og fyre sinum vaurum kunna at tala, enn þar vid

umbreytiz hinn nátturlegi smeckr og verkan urtarinnar. Nockrir smyria med plómu-musle og sýrópe ádr enn spunnid er. Allra besta tobak kemr frá Japan, og þar nærst frá Virginia, því á þeim laundum er hín sætasta og miúkasta jörd; enn úr súrre og saltpetadre verdr þat sídr þesiad.

Hvanna-rót þurkada, eda sortu língs blaud (sem enskir) kynnum vier brúka med edr i stadinn fyre tobak; líka og so hrafna-blaudkur.

# Tuttugasti og attundi Kapitule.

## Um adra Nyt-vexte á Íslande.

### §. 136. Heima-thee.

Þat er búid til af blód-biörg, vall-humle og riúpna lavfe, sumir taka jurtirnar heilar, ádr blómid er komid, adrir i bestu blómstr tíd. Hinir þridiu nema af blómstrin at eins, og er þat thee bæde sterkast og davn-mest; þó er meda'-mátinn fiöl-hæfastr, og uppskeran sú einfaulldust. Í þeirre fyrstu atferd eru grausin þerre-vaunduft. Menn ríta ei upp, helldr nema af med kníse, at námid eydiz ei nie landid spilliz. Blód-biörg og riúpnalavf, breidaz i lerest á svaulu lopte, og þurkaz þar án sólar. Ef lavfid er á havste tekid, þá skal velia þat smáa döck-græna, sem riupur tína á vetrum, enn ei þat liós-græna, því þat blikuar allt vid þurkin. Vall-humall er dreginn uppa lín-þrád, i gegnum urtar-stofninn, og skarid sídan med, sem-

henge = kál. Eptir þurkinn á at lin = troda jurtunum, i vel byrgt ílát, og láta so standa um hríd: slåe þær sig, eda sieu ei snarp = þurrar þá um er vitiad, þá má hafa þær vid óns hita, og þannveg þeim til bæta. Þesse blendingr geymiz med ófölnudum lit og fullum krapte ár og dag, enn til lengra tíma skal ei madr safna.

Samblands mátin er ymislegr: Riúpna lavf þarf ei at saxa, og lítid blód = biörgina, enn vallhumalinn má styckia og hafe bæde legge, blóm, og bland, nema þav, sem menn siá at fortnud og visin eru. Nær theid er vel saxad og so blandad saman, sem sidr er til á líknar = búdum (Apothekum) utanlands, þá verdr dryckrinn óklár, og ei nærre so sielegr. Nú hafa her nockrir þridiúnga skamt, á hvörre tegund fyre sig; adrir (og þeir eru flestir) sem hafa i einu punde helmíng af blód = biörg, og fiórdung af hinne hvörre tveggia. Enn hafa sumir 5 áttúnga blód = biargar, 2 riúpna = lavfs, og 1 af vall = humle. Med þessu thei er gott at taka lítinn mola um sinn, eda þverskorna krínglu af þurkadre hvanna = rót, bætir þat bæde smeckinn og tekr alla vænne burt; enda eykr sú rót heil = næmid fyre vorn Islendska kropp. Hennar smeckr finz ei af theinu, fyrr enn eptir þridiu á skenking og sídan úr því.

## §. 137. Þat Evropæiska Thee, Æru = prís.
### Veronica.

Æruprís er ein hvör besta sára bót, kavna og kyla; þar hiá blód hreinsande og kláda, læknande brióst = veike og nyrna = sótt, lúngua = særing, sídusting, miltis = syke og lifrar = stemmu; á vid qveisum

og

og hvörs konar innan taukum, og stendr i móte pestilentiu. Fyre slíkar dygdir er Veronica af aullum læknurum ákaflega hólborin, og alment kaullud þat Evropæiska thee. Nú nismunar æru-prís miög, og hefir einkum 2 tegundir, sem er hinn blavde og hvate. Þesse hvate er hann, sem mestar dygdirnar hefir, hann brúkaz á líknar búdum, og æ til lækninga. Þó hefir hann aptr Variationes. Med oss er hinn hvate og rette æruprís, sá i líng-breckum vex hiá blódbiörg, hris kyniadr, smygr med jördinne, hefir blaudin þunn, lióssgræn, med lítt merkianlegum sagar tenningum utan, enn blad-myndin kemr nærst sortu-linge. Blóm-bladid er eitt edr einlægt nedan ser-hlutad ofan, fagr-himin blátt, enn hvít-leitt i botnin, og fellr þesse blóm-koppr lettilega af, eptir þat at blómstrid hefir opnad sig. Aunnur veronica vex uppá fiaullum, marg-blómud i toppinum, döck-blá, og má varla hrís-kynind heita; sú hefir her verid brúkud, uy fyre thee, enn hún þornar travdla, og sortnar þá. Hin er miklu ágætare, þornar vel og helldr aullum sinum lit, smackande so hreint, og skenkiande so vel, at þeir sem af líknar búda grasinu druckid hafa utanlands, þykir þat thee ecke til jafns komiz geta. Þesse vor æruprís er hinn sama, sem finz i Almanna giá, og hefir her nú i þriú ár, sídan hann fundinn vard, lesinn og þurkadr verid til thee-dryckiu, þá mest skyllde vid hafa. Inrtin er bæde smá og lítid af henne at fanga; vegna þess mætte hún og meira metin og dyrgylld vera her á lande. Æruprís ber ofr smátt frió, hefir þat her og lesid verid nærst lidid ár, og til reynslu sád, i líklegre af staudu nærre bænum, enn þó ecke uppkomid, so siez hafe.

§. 138. Reykelsis vextir.

Reyr-gresid (Gramen Mariæ, acre odorifera) gefir góda lykt klædum. Þat má heingia i vöndlum i hús vor.

Strand-kál eda lida-arve (af þvi fræ-hulstrin samanstanda af sivaulum lidum, gefur sætann ilm leingi, ef urtin er tekin upp med rótum, og heingd so upp, at blaudin horfe nidr.

Hrís-lim eda lúsa-líng gefir gódann davn. Þó einir enn betre. Tóbaks reykr er og nóg hollr. Þurkad vall-humals blóm; hvanna-rótar börkr; blód-biörg þurkud; eine-ber eda hard-þurkud eine-blaud gefa bestu lykt. Þessu reykelse skal sá á glædur i glódar kere, og veisa so um húsid.

# Tuttugasti og niundi Kapitule.

## Um Dúk-vexte.

### §. 139. Um Lín.

Lín er med 10 stavüglum, 5 af hvöriu kyne. Af breidum og gliáande kornum vex upp graunn stavng, med miófum blaudum, og bláu blóme, álnar há og þar yfir. Lín vill hafa liúfa, lina og góda jörd, sand-blendna, lítt enn vel tadda, annad hvört havstid fyre, med savda-tade, eda stemma vors, med vel suinne og geradre kúa mykiu. Aburdrinu skal vandlega jafnaz, tvisvar eda þrisvar plægaz, meliaz vel, keflaz líka. Fræunum á þiett

at

at sá, og ei diúpt, med seinasta qvartere árdegis, og þá keslaz akrin á eptir. Reina forarnar skulu diúpar vera, og hallande at heim, so at vatn stande alldrei á lininu. Jurtin verdr uppskorin ádr full-bliknar, enn þá igræn, og breidd á akrinn, hvar hún bídr skúr og skin eina viku eda lengr. Sídan er hún saman raukud, bundin i vöndla og þrest heima, so at fræ-knapparnir affalle. Þat besta fræ ser til útsáds, hitt til lin-olin-gerdar. Vöndlarnir leggiaz i vatn, og steinn ofan á; bída so þar 5 daga eda viku, þar til þat trenada af nióʼlanum fúnar; sídan er línid vel þvegid upp, og þurkad úte i sól, vindum, edr inne vid elld, hvad þó er hættelegra. Lokfins er þat stappad, steytt eda núid medal handa, og kembt sídan.

## §. 140. Hanpr.

Hanpr er i tví-hyse, hefir 5 hvata stavngla, og er i ætt vid humal og spinaucku. Hann verdr mikil eik, med haurdum holnm nióla, mann-hæd eda fremr. Sie hann sáinn i gæsar- edr ædar-egge, þá verdr stofnin so travstr og digr, at træ-sleifar má úr smída. Hanpr er twen-slags; karlkyns sá er mest brúkaz og bestr er, og kvenkyns sem er lakare, enn ysrid bráď-þroska, og kynne máskie betr temiaz medr oss. Allr hanpr vill hafa miúka vid-raka og vel tadda jörd, havstid fyre nockrum sinnum upp-pællda, sem lín-akrar. Betr ser ef stúngid er diúpt og jafnt, og vel mulin jördin, diúpar vats-forar skal her ei hafa. Börkr haups gefr bast og spuna efne. Hann er uppskorin ádr full-trenaz, og at flestu vid-líka med hann farid, sem um lín var sagt. Lengr má hann i vatne liggia, til 10 dægra,

og sídast má beria hann med tresleggium, ádr kembdr er. Fræid verdr af = þreskt sem lín = sád, og brúkad þat besta til útsáds, hitt til oliu = gerdar og fugla= fódurs, einkum tamdra tytlínga. Ur haup=verke til= byz strige sínu og slæmr, snære, línur og kadlar. Med slíku móte mætte hann voru lande verda hardla nytsamr, er hann ecke helldr so veikr af sier. Sáiz hann of þiett, þá má gródr = setia hann, hvad skie skal, ef upp komin blaud úngurtarinnar koma saman.

Af eine = triám eru utan=lands kadlar og línur giördar, edr. af berke hanns, enn um börk af vorum smá eini munde lítid muna.

Brenne = netlan er ein vefuadar urt, af henne hafa i audrum laundum lín = líkir dúkar giördir verid, og slíka dúka brúka Kínar Keysarar til sumar=klæda. Her til skyllde veliaz hin stærsta netla, enn med= ferdin verdr, sem á líne og hanpe.

# Þritugasti Kapitule.

## §. 141. Um Vidar plantan á Islande.

Grene, fura, espe og píll være líkast at á Islande vaxa kynnu, þvi þav vidar kyn þola vetrar= haurkur. Furu = fræ hefir her á Islande sád verid, og komid upp þumlúngs hátt, sem dó á audru eda þridia ári. Atgætnis verdt er um villu þá, er menn

menn rugla saman furu-nafne og grenis. Fura, sem fordum hiet þaull eda þall, kallaz nú og fyrrum bæde af jurta-meisturum og so lexicographis, i Látinu Pinus, enn Fichte i Þydsku. Þesse vidr vex ætíd á þurr lende miög hátt, med uppreistum greinum, og hefir styttre kongla enn grenid, er at rettu nafne heitir abies i Látinu, enn Tanne i Þydsku, og steudr þat jafnan, hvar grund-völlrinn er rakr. Einkunnir grenesins eru þessar hinar hellstu, at greinirnar standa þvert út, og tídum sveigaz nidr, þá treid er þroskad ordid, eda þær útvaxnar. Einkum er þetta ein variatio, sem i Svíþiód heitir henge-grene. Þar nærst standa blaudin aull nidr á greinunum, sem ofan á eru blada-lavsar; og i þridia lage standa þær á allar hlidar út úr stofninum, enn þar á móte, á pinu eda furunne, þá eru þær flestar og lengstar á móte sudre, helst á Nordr-laundum, enn miög fáar þeim megin á stofninum, sem til nordurs veit, og er þat merke jafnan vegfarendum til leid-sagnar. Framveigis er i tillite til nytseminnar, sá munr þessara tvenslags triáa, at fura brúkaz mest til allskonar bygginga, mastra, húsa, biálka, þilia og hvörs kyns smá-smídis eda snidkara verks; þvi hún er so fastr og gódr vidr. Tiara og bik er allmennelegast af furu tekid, helst af rótunum; bravd er giört af berkinum. Verdr hún 400 ára gamul. Grenid er fagurt á syndum, og til státs garda brúkad utanlands, enn þó torvellt at færa þat i adra stade til plantanar. Þess vidr er liettr og hvítr, svellr bæde og rifnar af regne og þurkum. Bordin brúkaz þó miög, og börkrinn til undir baks.

§. 142.

## §. 142. Um Furu.

Um furu-plantan være sama at segia, sem um triáa gródr-setning yfir hófud, at jórdin skyllde veliaz vid-lík, áttin og afstadan sem treid ádr hafde, og má marka áttina med krít, þar gródr-setningrinn er upptekinn, annars þeckia menn þar af, hvórt treid hefir snúid, ef skorid er um þvert, at mergrinn er optast sudre nær enn nordre. Af trenu er bæde skorid nedan til, og styst af greinunum, þangat til at lísid siez, og verdr þetta giórt riett adr enn plantad er, þá búid er at bleyta stofninn ádr i vatne, (stundum mykiu-lagar blaundu) 2 dægr eda lengr, sie treid þurt. Gröfin sem plantad er i, má vera tveggia álna laung og breid, og jórdin uppstúngin jafnt til tveggia fóta dyptar, meir eda minna, eptir þvi sem gródr-setningrinn finz at vera stór til, og skal þiappa molldinne hóglega at, þá nidr er settr, og láta ei holur ofan i vera hátt nie lágt. Vidar sage at blanda vid þá jörd, sem nærre er triánum, þat er opt gott. Vökva skal vel strax á eptir, enn sídan minna, helst þá treid elskar þurr-lende. Vid stofnin skal jórdina hærra uppbera, og jafnan þar at þrista nær gisna vill, so at hvórke renne þar vatn ofan med, nie vindr umbláse. At minsta mále skal fadmr vera á mille gródr-setninga. Vid greina-skurdinn skal þat atgæta, at skera af á ská, so at skurdrinn snúe nidr á vid, annars skal þá og sídar, nær greinirnar eru skornar, gá at nockr avgu eda baur á þeim sieu, og snúe sárid upp, þá skal plástr vid leggia, giórdann af samhnodudu vaxe og harpeys, líka má smyria med nyu smiöre, eda rióma, og binda yfir þiett bikad lereft, i aull hin sárin er betra at

klína

klína miúkre og deigre molld eda mykie. Lokfins hlytr vid hvört tre styttu at setia, og þvi helldr sem þat er veikara, binda so vid med vídir-tágum, og láta þó ei á trenu mæda.

Travdlega mun takaz, at fá her tre af fræe, nema konglarnir sien nidr settir, og þann máta hefir losad fyre mer, ein hálærdr gamall og reyndr Normadr, sem siálfr hafde vaniz þeirre atferd. Jörd, vedrátt og afstada skal veliaz eptir stadnum, sem köngullinn var frá tekinn; á at pæla þar upp jördina, sem strax var sagt, og setia hann so nidr á endann, at hver handar dypt verde ofan at toppinum. Sída kunna 2 eda 3 ár, þar til hinar úngu hríslur uppkoma, og verdr mikill búskr af. Konglar eru harpeys-ríkir, þat vardveitir fræin örugglega frá frostum, þvi at þav liggia undir kongla blaudunum. Nú þarf ei her kulldann at óttaz, ef snióa legde yfir, hvar konglarnir eru nidr settir. Nær plantad er, þá være þeir gródr-setningar bestir, sem styrkvir eru ordnir 6 edr 8 vetra gamlir.

## §. 143. Espe. Populus tremula, vulgo populus lybica.

Þat vex bæde i Sviþiód og Norvege, eins nordarlega, vill þat deiga jörd, og vex giarnan i daulum, hvar forsæla er nockurn part úr deginum. Annars finz þat og á fiaullum og i skógum. Espe vex miög fliótt og margfalldaz, þvi ræturnar smiúga laúgt nidr i jördinne, og skióta upp hríslum hier og hvar. Timbrid er hvitt at lit, miúkt þiett og fallegt

fallegt úr at smída, þó ei hart. Þat brúkaz mest til allskonar iláta, aska og sáa; líka til bygginga innan húss. Þau míklu titrande blaud eru besta fódr hestum og fie.

## §. 144. Píll. Salix arbor.

Píll er skylldr vorum vídir-tegundum, triá blavtastr og súnar giarnan, enn hann vex miög og marg falldaz sem espid, þienar hann vel til girdinga, og vel má hann til út-hysa brúka, meisa, hripa etc. Píllinn vill helst vot-lende, ef jardvegr er svartr og miúkr, so sem á ár- og vats-bauckum.

## §. 145. Um innlendann skóg.

Reynt hefir her verid at planta innlendann skóg, so sem reyne-vid i Skál-holte, og biarkir langs med trôdinne á maudru vôllum i Eya firde. Villdu menn þvi-líkt reyna, skyllde bestu tre til flútnings og plantanar taka, so sem birke úr Fnióska-dal, og reynirinn úr Hestfirde vid Isafiörd; enn átt og lands-lag þarf á sig at setia, hafa saumu molld, hvar saumu graus vaxa, láta súm treu gánga upp med jardar hnavsum, og planta i tilgerda stampa edr arkir til flutnings, edr at minsta koste taka med sier huockud af molldinne, færa heim med sier, og láta koma nærst rótunum, þá nidr er sett. Vorn bein-vidir mætte og planta jafn-framt pílunum, og vita hvôrt hann mætte rettann temia, eda fóstra til meiri stærdar heima vid bæ.

# Þritugasti og fyrsti Kapitule.

## §. 146. Her teliaz nockrar Islendskar Nyt-urtir.

Margar eru urtir, sem nytiaz hingat og þangat i sveitum.

Til dæmis:

1) Gor-kúlur kunna smidir hafa i herdslu stockum, þar af verdr járnid hardara og betra.

2) Geit-lavkr meinaz at reki mys úr húsum.

3) Melsins aux lita grænt, enn af rótunum giöraz valldar reidings torfur i Medal-lande.

4) Tiarna slyid græna þurkad, rauk i kerte og lampa.

5) Sólseqviu-rót (Gei rivalis) er gód i öl.

6) Kervillinn litar gult og grænt.

7) Beitelíng má til ölgerdar hafa, i stad humals; þat er gott undir fe, eykr mykiu.

8) Fifan gód i sængur, kodda, kerta-rauk.

9) Avgn-fró gód i öl.

10) Burkne litar grænt.

11) Þunn-blada-þáng i fiöru best at brenna af aullum fiauru grausum, ólyktar minst.

12) Þara kyn sum, (roscellæ) til háravds litar.

13) Madran til húss-ilms, litar ravdt.

14) Storka blá-grese litar blátt.

15) Þavg laungu og mióvu trölla-graus eru hreina fæda.

16) Mosar-ymsir þurkadir, gott tród; item til at venia smala á at eta i hardindum á vetrum. Barna-mose gódr i vauggur.

17) Lysia-gras læknar júfur-bólgu og sprúngur kúa, ef lögrinu er á borinn.

18) Súru-rót, þurkud litar ravdt.

19) Vídir-lavf þurkad gott til hollda, eins vídir hinn smáe; enn hvört-tveggia er slæmt til miólkur, görir þykt skinn þeirra gripa sem á þvi fódraz.

20) Adal-bláber lita ravdt.

21) Miad-urt gód i öl og til sortu-litar.

22) Breune-uetla þurkud eykr kúa miólk. Eins mar-hálmr nyr.

## §. 147. Um' Skrúd-urtir.

Til endalyktar bæklingsins, má eg þess geta, at ymsar fegurstu urtir, og helst þær sem ilmande lykt hafa, og jeg hefe kallad reykelsis-vexte (§. 138.), má til skrúds brúka, skemtunar og húss-prydis, so sem at eru Inne-blóm, jurta-pottar, kyrkiu-skrúd af blómstrum, gard-skrúd ymislegt, lyste-hús eda lavf skálar, og plantadir gard-lundar, til at sitia i., ásamt margre annare lysteseme, sem jardar innar ávextir kunna oss at gefa, og i sier siálfre er ei einasta saklavs; helldr og kaun at vera Gude þægeleg, enn oss ánægiufull, og i vissann máta gagnleg þar at avke.

§. 148.

## §. 148. Eptirmále.

### Um þat, hvörnin mat-urta rækt kunne saman at koma vid búskap Islendinga.

Nú skal enn sinn enda stutt og einfallt ágrip um gard-yrkiüna og nyt-urtir á Islande. Verde eg þar um sann-fródr at hún á komiz hiá alþydu, og gódir menn girniz meira her um at vita, þar so margir ágætir jardar-ávextir eru enn ótalldir, þá skal eg giarnan fyre mitt leite láta i tie, hvad eg veit hentugt vera, sáe eg þar til tækefære, líf, heilsu og tóm-stundir. Enn máske súmum bændum syniz akr-yrkia fyrirhafnarsaum og vandasull: þvi má þó mót mæla; nær jurta-gardr er bygdr, og molldin tilbúin, þá er af mesta stritid, hitt kostar þrifnad umhirding og náqvæmne, sem jafnvel mætte smá-börn til brúka, og venia þaug so vid verkid. Þat munu menn reyna, ef Gud blessar þeim þessa nyu idiu, (hvad hann visselega giörir, nær hún er byriud og framqvæmd i hans nafne) at henne mun fylgia ny ánægia, hvílíka Islendingar hafa ei fundid lánga hríd: um nytsemdina i búskapnum vil eg nú ei margt ræda, þvi reynslan talar sannleikann. Þat munde sannaz, at þó einn sveita bónde rere ei til sióar, helldr ræktade sinn alldingard, og lifde þar med af búnytium sínum og fiár-afla, þá kynne hann miklu nádugra, hollara og ánægdara líf þar vid at hafa. Og nær hann nú þar til gæte bæde miöl fengid og brand, af Islendsku alldine, sem Skaparinn lætr vaxa i voru faudr-lande, þá sparade hann sier og andrum stórt ómak og kostnad, til at kaupa þat af framande þiódum, og giöra þeim sifelldann haga og mædu, hvilikar vanrur hingat til lands at flytia.

Gud virdiz avgun at opna á oss Islendingum, so at vier siáum þann rietta veg og máta, og sáum mann=dád til at leita vors daglegs bravds ærlega, i hans ótta og elsku, med hreinlæte, ugtne og hóssemd, slíkum dygdum sem hónum þócknaz.

Gud virdiz og so, at leggia her med sina blessan, sier til dyrdar, vorum góda Konúnge til glede, og aullum þeim er af rót elska landid vort; enn oss siálfum, og vorum eptirkomendum jafnframme, til farsællegrar vidrettingar, og æfelegra nota.



Registr.



# Registr.

## A.



## B.





F.





# H.





## K.



## L.





N.





## N.



## O.



## P.



## Q.





# R.



# S.



Spínat





Ville=





## Þ.



## Æ.





